NOKKUR

# LJÓÐMÆLI

OG

# ÞÝDDAR SÖGUR

EFTIR

*SIGURD J. JÓHANNESSON.*



WINNIPEG
PRENTSMIÐJA LÖGBERGS
1899.

NOKKUR

# LJÓÐMÆLI

OG

## ÞÝDDAR SÖGUR

EFTIR

*SIGURD J. JÓHANNESSON.*

---

WINNIPEG
PRENTSMIDJA LÖGBERGS
189[illegible].

# I. LJÓÐMÆLI.

---

## MINNI CANADA,

2. ágúst 1897.

---

Vort unga land, þú landið meginfríða,
þú landið, sem oss kennir bezt að stríða
til sigurhróss og sannra hags-umbóta;
því síns atgerfis hvern þú lætur njóta.

Þú Canada ert Kanaans-landið sanna,
þú kostalandið frjálsborinna manna;
til framfara þú frjálsan anda vekur
og forna vanans heimsku burtu rekur.

Þig vogi enginn konungs ambátt kalla,
þú krýnda drotning regin hamrafjalla.
Þín skikkjan græna' er skógar mörkin víða,
og skartið væna akurreinin fríða.

Í skauti þínu áttu gnægt af auði,
og óspart miðlar sonum þínum brauði,
ef á sinn mátt og megin [illegible] trúa
og manndóms ei af réttri götu snúa.

Þú tókst oss forðum, fátæka og smáa,
er fornan létum bústað vorra áa,
oss fóstur bauðst með fylsta kærleiks-hóti,
og faðminn stóra breiddir oss á móti.

Vér ætíð skulum unna þér af hjarta,
sem oss hefur senda vonarstjörnu bjarta,
er fögru ljósi á farbraut vora stráir
og frægðar gengi niðjum vorum spáir.

---

## JÓLANÓTTIN.

1897.

---

Um uppheims bláa elivoga,
þars ótal fögru blysin loga,
er eitt að líta öðrum stærra,
sem öllum hinum logar skærra;
það boðar fæðing frelsarans.

En holdleg augu ekki sjá það,

og engum heldur lýsa má það,
sem trúir ei af öllu hjarta
á algæzkunnar ljósið bjarta
og fórnargildi frelsarans.

Í kotum jafnt sem konungs höllum,
nú kátt er heims í bygðum öllum,
þars grundvölluð er kristin kirkja
og klerkar drottins víngarð yrkja
með friðarboðskap frelsarans.

Já, fögnuð mörgum flytja jólin,
þá færast börn í nýja kjólinn,
með gleði nýjar gjafir skoða
og gleyma hverskyns hrygð og voða,
og fagna komu frelsarans.

Sem lítil börn með bljúgu geði
nú byrjum vora jólagleði,
og fylkjum oss í orði og verki
und alkærleikans helga merki,
að fögru dæmi frelsarans.

---

## RÓSIN.

Rósin fríð í fögrum lund
fagnar blíðri morgunstund,
sólu breiðir blöðin móti,
byrtunnar og yls svo njóti;
daggartárin þrungnu þá
þerrast skjótt af hennar brá.

Þannig vér með léttri lund
—líkt og blómin fríð á grund—
breytum lífs í bylja-róti,
breiðum vonar-faðminn móti
kærleiks sól, er þerrar þá
þrungin tár af hreldri brá.

Hræðumst ekki hel né gröf;
heimi í vor skömm er töf;
dauðans fyrir handan hafið
huldu-skýjum sem er vafið,
heiðskír ljómar líknar sól,
lífs þar eilíf haldast jól.

## KÆRLEIKUR.

Ef traust vér knýtum kærleiksbönd,
sem kristnum hæfir mönnum,
og bróðir réttir bróður hönd
með bróðurhuga sönnum,
og eindrægninnar andi býr
í orði jafnt sem verki,
mun gæfuröðuls geislinn skír
æ glitra á voru merki.

En mannfélagsins arni á
þars úlfúð loga kyndir,
vér hljótum oss til ama sjá
þær ægu skuggamyndir,
sem agg og þrætur efla mest
og óhamingju boða,
og kveykja andans eiturpest
til eilífs tjóns og voða.

Hinn sanna konung kærleikans
því keppumst við að hylla,
svo blessun ávalt hljótum hans,
þá hverfur böl og villa;
í sorgum jafnt sem gleðiglaum,
hans götu beint ef fetum,

í freistinganna stríðum straum
vér staðið örugt getum.

Já, biðjum hann, sem æðstur er,
oss aðstoð veita sína,
og láta í vor hjörtu hér
sitt helga ljósið skína;
það sannleiks veginn vísar á
og vermir hjörtu kalin,
svo hæstum sigri hepnist ná
er hnígum loks í valinn.

---

## MEYJA-ÓÐUR.

(Bæði sönglag og viðlag er þýzkt).

---

Á meðan fjör er ungt í æðum,
,,vívallerallerallera"
og vorsól skín á vonarhæðum,
,,vívallerallerallera"
vér kyrjum gleði gloríá
og gullna strengi leikum á
,,vívallerallerallera".

Og svásrar æsku syngjum minni,
,,vívallerallerallera".

svo þrífist engin sorg í sinni,
,,vívallerallerallera".
því æskan er svo lyndislétt
og langar til að fara á sprett
,,vívallerallerallera".

Í unaðsværum æskudraumi,
,,vívallerallerallera"
vér berumst fram með gleði glaumi,
,,vívallerallerallera".
Oss siðleg skemtan saklaus er,
því sannleiks herrann vitni ber
,,vívallerallerallera",

Hve yndislegt er æ á kvöldin,
,,vívallerallerallera"
þars ljómar skæri ljósafjöldin,
,,vívallerallerallera"
og glymur loft af gleðisöng;
þá gerist ekki tíðin löng
,,vívallerallerallera".

Og fold þá gyllir sumarsólin,
,,vívallerallerallera"
um lundinn græna grund og hólinn,
,,vívallerallerallera"
að hoppa líkt og léttfætt hind

og lífsins skoða björtu mynd
„vívalleralleralleraʻʻ.

þó ávalt hyggjum hófs að gæta,
„vívallerallerallera“
og engan hryggja, heldur kæta;
„vívallerallerallera“
vor gleði sé æ helg og hrein,
sem hjarta engu vinni mein
„vívallerallerallera“.

---

## KLONDIKE.

Nú í vestur víking halda
víkingar að fornum sið,
hamrabúum heiftir gjalda,
hrímþursana berjast við,
sem þar heims um allan aldur
ómælandi fólu seim;
ramman huldu gólu galdur
goðin yfir sjóði þeim.

Ráðin er nú gömul gáta,
goðadómur fallinn er.
þursar verða loks að láta

linnabing af höndum sér;
framar neitt þeim finst til varna,
fornri blæju af er svift;
millum gráðgra mammons barna
mundi þeirra verður skift.

Ei má boðum rögna rifta,
raun á slíku vorðin er;
misjafnt æ̜rið mun þó gifta
málan gjalda þessum her;
verður hver sér lynda láta
laun óríf þó séu veitt.
Sá þarf aldrei gull að gráta
gullið sem ei átti neitt.

---

Röskir drengir rjúfið hauga,
rammar vættir herjið á;
hlífist ei við dökka drauga,
dólga rænið, hver sem má;
heitið á „Þór" og helga „Láka",
heflið ei segl þótt vaxi gráð.
Sitjandi oft sveltur kráka,
sú er flýgur hremmir bráð.

Vel sé þeim sem hnossið hljóta,
heilla allra þeim ég bið,
ef þeir mammon ekki blóta
eftir fornum nirfilssið.

Framkvæmdanna afl er auður,
illa títt þó varið sé;
andi manns er orkusnauður
einatt því hann skortir fé.

---

## RÖDD ÚR EYÐIMÖRKINNI.
(28. maí 1898).

---

Hér ef skyldi ég beinin bera
brattra millum fjalla tinda,
heygður mun ég að háttum feðra,
en helskó mér ei þarf að binda.

Skófrekt því ég ætla eigi
eilífðar á brautum vera;
anda minn þá ofar skýjum
óþreytandi vængir bera.

Ei þá reynist örðug förin
austur að sækja vinafundinn,
sem ég við fyrir skömmu skildi
skírum vinar heitum bundinn.

---

## SENN KEMUR SUMARIÐ.

(1. apríl 1899).

---

Senn kemur sumarið blíða,
sveipað í ylgeisla hjúp;
senn lægir svalviðrið stríða,
senn kyrrir ólgandi djúp.

Senn hýrnar sólvangur breiði,
senn brosir foldin oss við;
sætróma svanur um heiði
svífur með töfrandi klið.

Senn alt af svefndoða reisist,
senn gliðna hrímkólgu ský;
vetrar úr læðingi leysist
lífið og þroskast á ný.

Senn fyllir sólstöfum dalinn,
svartálfar þokast af leið;
senn vermist sáðreitur kalinn,
senn kvakar þröstur á meið.

Senn glita sóleyjar varpa,
senn breytist nóttin í dag;

senn leikur svásúðar harpa
sumarsins himneska lag.

Senn kemur syngjandi lóa,
suðrænum flogin úr lund;
senn fara sjómenn að róa,
senn berst þeim gullið í mund.

Laxar og silunga-seyði
sveima um elfur og tjörn;
hlakkar þar hátt yfir veiði
háfleygi kónguriun, Örn.

Senn fara lömb sér að leika
léttfætt um bala og hól,
sauðir um klettarið kreika,
kýr og ær þyrpast á ból.

Lífið alt leikur við fingur,
lofandi umskiftin góð;
náttúran samróma syngur
samstæðan fagnaðar óð.

Andi manns líka við lifnar,
lífs rúnum alt virðist skráð;
yngist og uppá við þrifnar,
undrandi spekinnar ráð.

Vonirnar vakna í brjósti,
vílið og kvíðinn svo dvín.
Vetrarins grályndis-gjósti
gleymt er þá vorsólin skín.

---

Treystum á mátt þann og megin
menning sem eflir og dáð.
Fetum svo framsóknar veginn
felandi drottni vort ráð.

---

## HÁKON HLAÐAJARL.

---

Hann Hákon með nauðung varð kristinn
að kalla,
frá kristninni óðara gerði þó falla,
og reif niður kirkjur og rak presta alla,
en regin með virðingu hóf upp á stalla,
til sigurs sér.

Hann aldrei í stafninum róðukross reisti,
því rengdi að slíkt efldi sigur og hreysti;
hann grimmur til rómu í Þórs nafni þeysti,
og Þorgerði framar en Maríu treysti.
til sigurs sér.

Hann kristnina hégilju kallaði ljóta,
og kristilegs friðar ei girntist að njóta;
hann fátt vildi læra til lífernis bóta,
en lærði að syninum þyrfti að blóta
til sigurs sér.

---

Menn vaða hér ávalt í villu og svíma,
og vitinu ráðin er endalaus glíma,
við heiðninnar kyngi og heimsku að stíma,
með hégiljum ótal, sem burt þyrfti rýma
til sigurs sér.

Þótt heimurinn talinn sé kristinn að kalla,
frá kirkjunni margir hér enn í dag falla;
því sjá þykjast á henni svörtustu galla,
og sín eigin goð vilja hefja' upp á stalla
til sigurs sér.

Í sannleika hver einn vill sigurinn hljóta;
og sumir—að hagsældar megi þeir njóta,—
á sjálfselsku altari sannfæring blóta,
þótt samvizkulögmálið verði að brjóta
til sigurs sér.

---

# EFTIRMÆLI.

## MARGRÉT JÓNSDÓTTIR,

**kona Ólafs Indriðasonar (undir hans nafni), 21. marz 1898.**

Þú farsæl fram ert stígin,
og frelst af allri þraut,
til hollrar hvíldar hnígin
í húmleitt grafar skaut.

En einn ég eftir hjari
þá elli að dyrum ber;
sem lítið ljós á skari
mitt líf nú orðið er.
Á björtum bernsku stundum,
þá blasti lífið við,
við hjúskaps-heiti bundum
að helgilaga sið.

Þá unaðs ársól brosti
á æsku-vonar brá;

að meiga, er stundin kemur,
um eilífð dvelja ykkur hjá,
þars ekkert böl er fremur.

---

## Eftir barn.

(Undir nafni móðurinnar).

---

Fölnuð er mín fríða rósin,
fögru slokknuð brúnaljósin,
hjartað unga hætt að slá;
stirð og köld er hlýja höndin,
heljar fast sem reyrðu böndin,
morgni hennar æfi á.

Saknaðs kvöl og sorgin þunga
sárt mig beygir, því svo unga
hana grafar huldi skaut.
En ég veit að öndin lifir,
alla mæðu hafin yfir,
leggur það mér líkn í þraut.

Friðarins á fögru landi
frelst úr allri neyð og grandi,
drottins akri í hún grær.
Öllum jarðlífs fjólum fegri,

farsælli og elskulegri,
eilífum þar hún þroska nær.

Aftur þar við fáum finnast,
fornra ástarhóta minnast,
sama þegar vík ég veg.
Sérhver grær þá ama-undin,
er mín hjartans rós er fundin,
endurfædd og elskuleg.

---

## Jón Ásgeirsson
### á Þingeyrum.

Ég einatt glögt í anda sé
með aðdáun hin fornu vé,
þars Húnavatns var helguð leið,
er höldar mæltu lögskil greið,
og þrifinn margur þjóðskörungur
þangað reið.

Þá frægðar-sunna fagurt skein
á frelsis-himni björt og hrein;
þá stóð um hauður hetjuöld,
þá höfðu goðar megin-völd,
er drengskaps-rúnir ristu á sinn
reginskjöld.

Í minni fríðu feðra.sveit
það frægast höfuðból ég veit;
þar lengi sat að verki vís,
hin vitra Sökkvabekkjar-dís,
sem okkar þjóð hefur ódauðlegan
unnið prís.

Og jafnan hafa höfðingjar
með heill og rysnu búið þar,
sem öðlast hafa veg og völd,
ei virðing skort né otursgjöld,
og göfgast merki grafið á sinn goða-
skjöld.

---

Á þingeyrum í þetta sinn,
er þreyttur staldrar hugi m inn,
ég sé þar Jón er lagður látt,
und lágu kumbli sefur dátt,
því andinn lengur líkamanum lér ei
mátt.

En á ég að gráta, eða hvað?
Ég ætla lítið gagni það.
Ég sakna, en ei syrgi hót,
því sannlega fundið hefur bót
minn látni vin, við lífsins huldu
leiðamót.

Ég dáðríkari dreng ei fann,
með dáð hann þjóðar-hylli vann.
Sem höfðingi—þótt hefði' ei völd
og hirti lítt um otursgjöld—
hann mannúð sanna markaði á sinn
mæra skjöld.

Hans lund var frjáls og höndin hraust,
og hjartað trútt og fölskvalaust,
hann atgervi af öðrum bar,
sem Íslands fornu þjóðkappar,
í mannraun allri ótrauður og ötull var.

Hann bygt sér hefur bautastein,
sem byljir fá ei unnið mein;
því lifir æ hans minning mær
á meðan foldu girðir sær
og eitthvert blóm á okkar fornu ætt-
jörð grær.

---

# LAUSAR VÍSUR.

### BREYTING.

Flest er breyting undirorpið,
eldhaf jafnvel frýs.
Einn sér þeytir ofan í sorpið,
annar hærra rís.

### SITT AÐ HVERJUM.

Að öllum finna eitthvað má,
því alla ginnir veröld flá;
þú göllum hinna greinir frá,
en galla þinn ei minnist á.

### STAKA.

Ei eru vegir ætíð-beinir,
einatt reynslan sannar það;
en „fleira veit sá fleira reynir“
forðum eins og Grettir kvað.

## MORGUN.

Morgun sunna sæ og grund
sveipar geisla skrúða,
náttúrunnar lifnar lund
ljóss við gerfið prúða.

Myrkrið svarta kífið kalt
kröm og dauða færir,
ljósið bjarta lífgar alt,
leiðir, styrkir, nærir.

---

## SKÍMA.

Skelfd eru runnin* skuggatröll,
Skíma kunn það boðar,
senn á unn og austurfjöll
árdagssunna roðar.

*) flúin.

---

## EKKI ALLAR FERÐIR TIL FJÁR.

Fátækur ég fór á braut,
fátækari kem þó heim.
Fátæktin er fjandans þraut,
fjöldanum í þessum heim.

## GULLIÐ.

Gullið heimsins geymir völd,
Gullið er hans megin afl.
Gullið vora glepur öld.
Gullið er sem viðsjált tafl.

---

# II. SÖGUR.

## HÖND FORLAGANNA.

(Sönn saga, þýdd úr ensku).

,,Faðir", sagði Donald sonur minn eitt sinn við mig, ,,hvernig fara menn að taka þessar undraverðu ljósmyndir af þrumuleiftrinu, sem ég sé iðulega prentaðar í tímaritum. þeir vita þó ekki nær því kann að bregða fyrir, og ekki geta þeir kyrrsett það meðan myndin er tekin?"

,,Líklega ekki", svaraði ég hlæjandi, ,,en ljósið myndar sig sjálft. þegar út lítur fyrir þrumuveður, að nóttu til, þarf að hafa vélina reiðubúna, og benda myndaplötunni þangað sem helzt er von ljósanna; þá, um leið og leiftrinu bregður fyrir, festist myndin af því á plötunni, sem síðan er meðhöndluð á vanalegan hátt".

,,Er þetta alt? Er það svona einfalt?"

sagði Donald undrandi. „Getum við ekki tekið svona myndir?“

„Látum okkur reyna; það er bezt“, sagði ég, „en fyrst af öllu verðum við að bíða þangað til þrumur koma að næturlagi, og þá verður þú að gæta þess að hafa vélina að öllu leyti viðbúna, og látum svo sjá hvað okkur tekst“.

Við þurftum ekki lengi að bíða, því einmitt næstu nótt eftir samtal þetta skall á eitt hið stórfeldasta þrumuveður, og byrjaði það um kl. 11. Donald, sem var fyrir nokkru háttaður, kom þjótandi alklæddur inn í herbergi mitt og sagði: „Faðir minn, komdu fljótt; það er að ganga að með aftaka veður með ákaflegum leiftrum; ég ætla að fara að koma vélinni fyrir við framherbergis-gluggann, það verður hentugasti staðurinn“.

Ég skal taka það fram hér, að hús okkar stendur hér um bil 10 fet frá þjóðbrautinni, og vita framgluggarnir að henni; grassléttа er hinumegin brautarinnar, sem að nokkru leyti er umgirt nýgræðings-skógi. Þegar alt var reiðubúið við gluggann, kom Donald með hálfa tylft af plötum og sagði: „Það er líklegt, að okkur hepnist að minsta kosti ein af öllum þessum plötum.“

Stormurinn, sem altaf hafði verið að þok-

ast nær, skall nú algerlega yfir með fádæma ofsaþrumum og eldingum. Við settum hverja plötuna eftir aðra í vélina og bjuggumst við góðum árangri. Donald var í bezta skapi. Rétt þegar ég er að koma fyrir síðustu plötunni segir hann: „Hvers vegna reynirðu ekki að taka mynd af sléttunni við þrumuljósið, rétt á vanalegan hátt? það væri þó gaman að sjá hvernig hún yrði útlits; beindu plötunni rétt á miðja sléttuna, bara til gamans".

Ég féllst óðar á þessa uppástungu hans, og hafði að eins komið plötunni fyrir, þegar voða-stór þruma reið yfir; henni fylgdi afarmikið og bjart ljós, sem gekk svo nærri, að það gerði okkur nær því sem blinda um stund.

„Mér þykir vænt um að þetta er seinasta platan", sagði Donald, þegar hann gat látið til sín heyra fyrir þrumu-öskrinu, „því mig langar ekki til að vera hér við gluggann ef annað eins ljós og þetta kæmi aftur. Eigum við að prenta af plötunum í kveld?"

„Nei", svaraði ég, „farðu nú að hátta, en látum það vera fyrsta verk okkar á morgun að fást við þær".

En sú fyrirætlan fórst þó fyrir, því að í býti næsta morgun hrukkum við upp við það, að dyrabjöllunni var hringt svo gríðarlega, að

mér varð dauðhverft við, og þaut til dyranna óklæddur, utan bara á náttserknum. Þegar ég opnaði dyrnar, sá ég, mér til mestu undrundar, að þar stóð lögregluþjónn bæjarins. Hann var náfölur, og í hverjum drætti á andliti hans sáust glögg merki ótta og áhyggju.

,,Ó, herra minn", stundi hann upp, ,,viljið þér gera svo vel og koma með mér hérna yfir á flötinn? Það liggur þar dauðnr maður, sem ég held að hafi verið myrtur, því það stendur hnífur í gegnum brjóstið á honum".

,,Liggjandi hérna á sléttunni, myrtur! Það er ómögulegt", hrópaði ég upp; ,,en bíðið samt við, ég skal koma með yður".

Því miður hafði lögregluþjónninn haft satt að mæla; því þarna á rennblautum balanum lá, með andlitið upp í loft og stærðar hníf stungnum í gegnum hjartað, líkami Ivans Solenski's, hins unga og laglega leiguliða frá Hermitage, sem hafði viljað eignast hönd og hjarta hinnar yndislegu Maríu Devereaux í Forest Hall. Meðan lögregluþjónninn beið hjá líkinu, hraðaði ég mér eftir lækni, sem strax eftir að hafa skoðað líkið gaf þann úrskurð, að maðurinn væri dáinn, og það fyrir nokkrum klukkutímum síðan. Því næst hrópar læknirinn upp og segir: ,,Þennan hníf á Gerald Merrilees!

Lítið þið á, hérna á silfurbúna skaftinu er markið hans, stafirnir G. M.“

Næsta kveld var hinn fríði og gervilegi eigandi að Bellisins Nons farm—sem var meðbiðill Solenskis—tekinn og settur í varðhald, sakaður um morð, eftir eiðfestum framburði ráðsmannsins að Forest Hall. Hann bar það fram, að þetta áminsta kveld hefði Merrilees átt allharða orðasennu við Miss Devereaux; kvaðst hann oft hafa heyrt nefnt nafn Mr. Solenskis, en annað gat hann ekki heyrt glögt, nema þegar Merrilees þaut hastarlega út úr húsinu, sagði hann: „ég skal drepa hann! ég skal drepa hann!“ Svo uppá framburð þennan og það, að hnífurinn þektist sem eign Merrilees, var hann tekinn fyrir rétt í Guild Hall, í Winchester.

Lesarinn man ef til vill eftir rekstri máls þessa, er jafnótt birtist í blöðunum; en þó ætla ég til vara að skýra nokkuð frá varnar-gögnum þeim, er Merrilees reyndi að nota sér í hag. Hversu sterkar líkur sem bárust gegn honum, meðgekk hann aldrei neitt, og kvaðst ávalt saklaus og óvitandf um morð þetta; hann viðurkendi fyllilega framburð ráðsmannsins í Forest Hall, og að það sama kveld hefði hann beðið Miss Devereaux, en hún neitað sér;

kvaðst hann þá hafa sagt, að hún mundi taka Solenski fram yfir sig, og hún tjáð það satt vera, því hún hefði honum lofast þann sama dag; kvaðst hann þá hafa mist vald á tilfinningum sínum, því í rauninni hefði hann mjög örgerða lund. Hann kvaðst hafa stokkið út úr húsinu í mikilli bræði, og um leið talað þessi hræðilegu orð, sem nú vitnuðu svo stranglega gegn sér. Eftir að hafa skilið við Forest Hall, kvaðst hann hafa stefnt skemstu leið heim, beint yfir sléttuna og gegnt húsi mínu; hann kvaðst hafa hlaupið alt hvað hann orkaði, til að komast heim undan óveðrinu, sem var að skella á; vissi hann þá ei fyr til en hann rak fæturna í trjástofn og féll áfram þá hroða byltu, að hann um leið misti alla meðvilund. Þegar hann vaknaði úr roti þessu, furðaði hann á því, að hann lá upp í loft, en hafði þó fallið á grúfu. Síðan skreiddist hann heim til sín, mjög þrekaður eftir allar þessar svaðilfarir, og lagðist síðan til svefns og svaf af til morguns. En mikil varð undrun hans þegar hann vaknaði og varð þess vís, að hann hafði verið ræntur öllum verðmætum munum, er hann hafði á sér borið kveldið áður; vasar hans höfðu verið gjörtæmdir; úrið, úrkeðjan,

peningabuddan og veiðihnífurinn—sem hann allajafna bar á sér—alt, alt var farið.

Lögmaðurinn—verjandi hans—flutti mjög áhrifa mikla tölu, og reyndi með rökum að sanna sýknu hans. Sýndi hann fram á, að mestu líkur væru til, að sá rétti morðingi mundi hafa rænt hann, meðan hann lá í öngvitinu, og brúkað hnífinn til að myrða Solenski með, sem hann einnig hefði rænt.

Kviðdómurinn brosti að eins í kamp að málsvörn þessari, og kvað hana of einfeldnislega til að blekkja brezka dómendur; svo eftir litla stund kom dómnefndin fram með úrskurð sinn, svo hljóðandi: „Sekur". Gerald Merrilees var síðan dæmdur til dauða.

Nokkrum tíma eftir atburð þenna sat ég kveld eitt einsamall heima í húsi mínu og beið eftir konu minni og syni, sem von var á með eimlestinni frá Lundúnum, er koma átti á Dean-vagnstöðina kl. 3 að morgninum, en þaðan þurftu þau að aka í hestavagni 5 mílur. Mér hálf leiddist; ég hafði lokið við skáldsögu, sem jeg hafði verið að lesa, og fór að hugsa um upp á hverju ég ætti að finna, er gæti orðið mér til dægrastyttingar þangað til þau kæmu heim; þá duttu mér alt í einu í hug myndaplöturnar, sem fallið höfðu algerlega í

gleymsku og altaf legið óáhrærðar síðan þrumunóttina miklu. „Ég skal einmitt fara að fást við þær mér til afþreyingar“, hugsaði ég, „það er mjög vel til fallið“. Fyrsta platan, sem ég reyndi, hafði mistekist, en hvers vegna veit ég ekki; ég fleygði henni því strax og tók aðra. Já, þar kom mynd, sem vert var um að tala; hún sýndi fjóra mjög greinilega ljósstrauma, er kvísluðust allir út frá einu aðal-ljósi, og var eins og þeir rinnu niður á millum trjánna, sem einnig sáust greinilega á myndinni. Ég var og er enn hreykinn af þeirri mynd, og vísindamönnum þótti mjög mikið til hennar koma. Næsta mynd virtist mér eitthvað undarleg; ég skildi hreint ekkert í henni; mér sýndist eins og ég sæi mannsmyndir hér og þar á henni; fór mig þá að ranka við, að þetta var myndin, sem Donald beiddi mig að taka af landslaginu, því þetta var seinasta platan frá þessu minnisstæða kveldi; og við frekari rannsókn með stækkunargleri sá ég það, sem kom mér í þá geðshræringu, að ég skalf á beinunum. „Guð komi til“, hrópaði ég, „þetta er myndin af morðingjanum sem myrti Solenski.“ Enda líka var það sannmæli; hafði hún verið tekin á því sama augnabliki sem glæpurinn var framinn.

þarna stóð alt greinilega uppmálað á myndinni. Morðinginn sást þar með hnífinn í hendinni, standandi í sömu stellingum er hann hafði verið í þegar hann rak hnífinn í hjartað á Solenski; andlit beggja mannanna voru vel þekkjanleg, og sást þá, að sá, er morðið hafði framið, var næsta ólíkur Gerald Merrilees. Hann var lágur maður. gildur, með mikið skegg; og á bak við menn þessa sást hrúgald nokkurt, svipaðast því, að maður lægi þar flatur á jörðinni og andlitið vissi upp í loft.

,,Guð komi til'', sagði ég aftur við sjálfan mig. ,,Merrilees er þá saklaus eftir alt saman; en hvað þetta getur komið undarlega fyrir, að við skyldum einmitt verða til að taka myndina á þessu sama augnabliki. Á morgun skal ég fara til Winchester og sanna sakleysi hans''. En þá flaug mér alt í einu í hug: ,,Á morgun'', sagði ég, ,,já, en á morgun er einmitt danðadagur hans; nú er kl. 3, og eftir 5 klukkustundir verður alt um garð gengið. Ein fórnin enn, fyrir hina ranglátu dómstóla.''

Hvað átti ég nú til bragðs að taka? 20 mílur til Winchester; enginn vegur að ná í yfirvöldin þar í tíma til að afstýra þessum hræðilega sorgarleik, sem bráðlega hlaut að enda á svo hörmulegan hátt. Hér stóð ég

með óhrekjandi sannanir í höndum, sem frelsgátu saklausan mann frá viðbjoðslegum dauðdaga—man nsem þar að auki var einn minn kærasti vinur. ,,Hvað get ég gert?" hrópaði ég upp yfir mig í örvæntingu, og svitinn streymdi af andliti mínu.

Rétt í þessum svifum komu þau inn, kona mín og sonur, og varð þeim heldur en ekki hverft við, er þau sáu hvernig ég var útlits. En strax, er ég hafði skýrt fyrir þeim kringumstæðurnar, segir konan mín: ,,Taktu hjólið þitt og ríddu sem skjótast á stað til Winchester."

Já, þarna kom ráðið. Þegar klukkan átti eftir einn fjórðapart í sjö, reið ég upp að fangelsinu í Winchester og krafðist að fá að finna fangavörðinn tafarlaust.

Strax og ég náði fundi hans, sýndi ég honum þetta himinsenda vitni, sem hann áleit svo merkilegt, að hann samstundis sendi málþráðar-skeyti til innanríkis-ráðgjafans og tjáði honum frá þessari makalausu myndatöku, sem varð til að frelsa líf Geralds Merrilees um elleftu stundu.

Ástæðunum fyrir því, að Merrilees var laus látinn, var haldið leyndum fyrir almenningi, en myndir voru teknar eftir frummynd-

inni og sendar til allra lögreglustöðva í hinu brezka ríki, sem hafði þann árangur, að eftir 10 daga var hinn rétti sökudólgur handsamaður í Soho. Hann var þvínæst krafinn til sagna, og meðgekk glæp sinn strax. Hann kvað Solenski hafa verið Nihilista, en yfirgefið þann félagsskap og flúið síðan til Englands til að reyna að forðast hinn hræðilega dóm þess voða félags. En líf hans var samt í sífeldri hættu fyrir morðvopni manns þess, er hlotnast hafði það hlutverk að ráða hann af dögum. Í þeirri von að geta leynst fyrir morðvörgum þessum, hafði Solenski tekið sér bólfestu í okkar litla, rósama bæ, og ætlað að lifa þar kyrlátu lífi; en þorpara þessum tókst eigi að síður að spora hann upp. Hann viðurkendi að hafa, þessa áminstu þrumuveðurs-nótt, komið þvert yfir sléttuna og rekist þar á Merrilees meðvitundarlausan, og rænt hann öllu því, er fémætt var, og meðal annars hnífnum, er hann rétt á eftir sliðraði í hjarta Solenskis, sem hann af tilviljun mætti þar á sléttunni þegar hann var nýbúinn að yfirgefa Merrilees.

Að hæfilega löngum tíma liðnum fékk Merrilees fulla fyrirgefningar-viðurkenningu fyrir glæp þann, er hann aldrei hafði drýgt. Og ekki skyldi mig neitt furða á því, þó ég

einhvern tíma frétti, að hann væri trúlofaður Miss Devereaux.

Við erum altaf hinir beztu vinir. Hann segist eiga mér líf sitt að launa, en ég kveð það ekki þannig vera, heldur eigi hann það að þakka tímaritinu, sem kom okkur til að taka myndina góðu.

---

# ALI-BEN HASSAN.

(Indversk saga).

Ali-ben Hassan, æðsti ráðgjafi kalífans Amgiad, var eitt sinn á gangi fyrir utan borgina Bagdad. Hann var í heldur þungu skapi, og fanst alt hafa snúist sér til óheilla og ama það sem af var deginum. Hann hafði nú fyrst og fremst sofið illa um nóttina; elzti sonur hans, Noureddin, hafði farið út í bæ kveldið áður og ekki komið heim fyr en um sólaruppkomu, og þá augafullur; hafði verið á argasta svall-túr alla nóttina, og þar með brotið hin viturlegu lög spámannsins, er fyrirbjóða vínnautn. Enn fremur hafði þjónustustúlka sú, er átti að fylgja dóttur hans í baðið, sagt honum, að fimm daga í rennu, hefði á heimleiðinni mætt þeim ungur og laglegur maður, og látið sem það væri rétt af hendingu, en um leið og hann gekk fram hjá Aminu, þá—í stað þess að hylja sig með blæjunni—hafði hún lyft henni frá, til þess að gefa þessum ókunna manni betra tækifæri til

að sjá andlit sitt; en það stríðir beint á móti kurteisis-reglum ungra stúlkna meðal Múhameds-manna.

Út af öllu þessu var Ali í fremur illu skapi, en afréð þó að fara á ráðstofuna. Þegar þangað kom, var öðru nær en kalífinn Amgiad tæki honum vingjarnlega. Svo stóð á, að skömmu áður hafði orðið lítilfjörlegt upphlaup þar í einu nærliggjandi héraði, sem Ali —eftir að hafa bælt það fljótlega niður — þótti ekki þess vert að bera fyrir sinn tigna herra, kalífann. Þetta höfðu óvinir hans notað sér til að rægja hann við kalífann, svo hann varð fyrir mjög þungum átölum frá honum. Fyrst fyrir það, að upphlaupið átti sér nökkurntíma stað, og annað, að hann hélt því leyndu, og í þriðja lagi að hafa bælt það niður með valdi, því slíkt gæti haft illar afleiðingar.

Ekki var hann fyr kominn heim, en konan fór að jagast við hann og skúta hann út fyrir grútarskap; hann gæfi sér aldrei eyrisvirði, og því síður svo mikla peninga, að hún gæti keypt sér í kjól; kona governörsins væri altaf helmingi betur búin; hún hefði hreint enga almennilega flík að fara í. Öllu þessu tók Ali með einstakri stillingu og þolinmæði. Síðan skipar hann þjóni sínum að koma með

matinn. En í þetta sinn hafði matsveinninn ekki tilbúið nokkurn þann rétt er honum geðjaðist að, eða þótti nokkurs virði. Nú þoldi hann ekki lengur mátið; hann stökk út úr húsinu, út úr borginni og út á land. Þar bjóst hann við að geta þó að minsta kosti fengið frið og ró.

,,Vissulega'', segir hann við sjálfan sig, ,,eru sumir dagar á mannsæfinni þannig, að það er stór raun að þurfa að lifa þá, þegar allir hlutir verða til að snúast upp á móti manni og ergja mann''.

Hann var ekki búinn að ganga langt þegar honum fanst hitinn ætla að verða sér hreint óbærilegur; hann fór því að litast um eftir afdrepi fyrir hinni brennandi sólu, en árangurslaust. Loksins kom hann að götuslóða einum litlum, er lá út af aðal veginum; hann fylgdi honum í þeirri von að geta fundið forsælu. Ekki hafði hann lengi gengið áður en hann kom að hálf hrundum múrvegg, sem afar-stórt pálmatré stóð undir. Sárfeginn fleygði hann sér þarna niður í skugga trésins, og hefði eflaust fljótlega fallið í svefn, hefði hann ekki heyrt einhverja undarlega suðu. Hann lítur upp, og sér þá hvar ljómandi fallegg fluga er að sveima í kringum höfuð hans.

Hún var prýdd allskonar litskrauti. Hann langaði til að sofna, og bandaði henni því aftur og aftur frá sér með hendinni, en það hafði enga þýðingu, því hún varð æ því áfjáðari og gat loksins sezt á nefið á honum. Þá stóðst hann ekki lengur; hann settist nú hastarlega upp og ætlaði að slá hana, en misti hennar; en um leið og hún forðaði sér frá högginu lenti hún í stóreflis kóngulóarvef, sem náði milli múrsins og trésins. Ali gat ekki annað en glaðst af óförum flugunnar, og hugsaði sem svo: ,,Ó, ég skal vita hvort ég fæ nú ekki frið til að sofna ofurlítinn dúr fyrir þér, ófétið þitt''. Í því sér hann, að út úr sprungu á múrnum kemur afarstór og ljót kónguló, fult eins stór og fremsti köggull á mannsfingri; hún hafði svartar, loðnar klær. Hún fór þegar í óða önn að vefja vef sínum utan um herfang sitt. Aumingja flugan brauzt um og reyndi af öllum mætti að losa sig, en alveg forgefins. Ala rann til rifja nauð flugunnar, og þó hann væri bæði þreyttur og í illu skapi, gat hann ekki fengið af sér að láta hana farast þarna; hann stóð því upp og bandaði með hendinni við kóngulónni, svo hún fældist burtu, síðan leysti hann fluguna úr þessum læðingi. ,,Jæja'', segir Ali, ,,ég vonast nú eftir, að þú sjáir mig

í friði". Flugan flaug síðan burt, en Ali lagðist niður í forsælunni og sofnaði fljótt og fast.

Hann veit síðan ekki til sín þar til hann heyrir nafn sitt kallað með þrumandi raust. Hann lítur upp, og sér standa uppi yfir sér aðdáanlega fagra, risavaxna mannsmynd með skínandi björtum vængjum föstum við axlirnar. Ali þykist vita, að þetta sé eflaust andi.

„Ráðgjafi", segir þessi undra vera, „þú hefur gert mér mikinn greiða. Ég var flugan, sem fyrir skömmu settist á nefið á þér; ég tók þá mynd á mig að gamni mínu, og til að hvíla mig dálitla stund við mín æðri störf, en hinn illi andi, sem er minn svarinn óvinur, notaði tækifærið til að ráðast á mig í þessum kringumstæðum; hann hafði tekið á sig kóngulóargerfi og tókst svo að flækja mig í net sitt; og hefði farið illa fyrir mér ef þú hefðir ekki orðið mér að liði. Þú skalt vita það, að þó oss sé gefinn máttur til að framkvæma hvað helzt vér viljum, þá er oss hætta búin eins og mönnunum—hverra líking vér höfum—að flækjast í ýmsar tálsnörur, og ef vér á annað borð festumst í þeim, getum vér ekki losað oss úr þeim aftur nema fyrir hjálp mannanna, það er því einungis þínu göfuglyndi að þakka, að ég náði frelsi mínu aftur, og til launa fyrir þann

mikla greiða máttu biðja mig hverrar bænar, sem þú helzt vilt; hvað helzt sem það er, skal þér það veitast". Þannig voru orð andans.

Ali sat um stund án þess að svara. Eftir nokkra umhugsun tekur hann þó þannig til máls: „Ég sagði fyrir litlum tíma síðan, að langlífi væri ekki eftirsóknarvert, þar sem svo fjölmargir dagar af æfi manns væru eintóm armæða, og að betra væri, að æfidagarnir væru færri, en heiðir og skýjalausir. Þess vegna — sé það á þínu valdi, góði andi—þá frrelaðu mig frá öllum armæðudögunum framvegis, en láttu mig að eins lifa þá daga, sem ekkert andstreymi geti mætt mér á; gerirðu það, hefur þú margfaldlega borgað mér greiða þann, sem ég gerði þér."

Þegar andinn heyrði hvers hann beiddist, kom eins og hálf skrítið bros á andlit hans. „Hefur þú vel athugað þessa bæn þína?" spyr hann.

„Já", segir Ali.

„Ósk þín skal verða uppfylt, kvað andinn. Um leið fanst Ala hann þrífa um sig miðjan og líða með sig hátt í loft upp, og við það misti hann alla meðvitund. En þegar hann vitkaðist aftur, var hann kominn í húsið sitt í Bagdad og lagður þar til í rúmi, en ekki

gat hann hreift sig hið minsta eða gefið neitt hljóð af sér, og var því ómögulegt að gefa þess merki að hann væri lifandi. Augum hans var lokað, en ei að síður sá hann alt, sem fram fór í kringum hann, og heyrði hvað talað var. Herbergið var fult af fólki; konan, börnin og þjónar hans voru þar öll syrgjandi, og barmandi sér út af missi svo góðs eiginmanns og húsföðurs.

,,Hvað á þetta alt að þýða?" hugsaði Ali. ,,Er ég þá virkilega dauður.

,,Já", heyrði hann sagt, og sér um leið hvar andinn stendur við fótagaflinn á rúminu og les hugsanir hans.

,,Þú svikuli andi", hugsaði Ali, ,,ferðu svona að efna loforð þín?"

,,Ásaka þú mig ekki", segir andinn, ,,heldur sjálfan þig fyrir þína eigin heimsku. Þú baðst mig þess, sem ómögulegt var að veita, og skal jeg nú skýra þér frá hvernig á því stendur:—Í öndverðu var tveimur álfkonum falinn sá stari, á hendur að spinna forlög mannanna. Annari var fenginn hvítur ullarlópi úr hverjum hún átti að spinna gleðidagana, en hinni svartur og skyldi hún spinna armæðudagana úr honum. En eina nótt, er þær sváfu, kom gamli óvinurinn, Satan, þang-

að og ruglaði saman allri ullinni; og svo rækilega gekk sá gamli frá þessu verki, að þegar álfkonurnar vöknuðu, sáu þær engan veg til að aðskilja ullina og hafa því jafnan síðan spunnið alt saman í graut; eða getur þú minst þess að hafa lifað nokkurn þann dag, að þér hafi ekkert gengið í vil, þótt máske það hafi lítið verið? Með því nú að biðja mig að taka frá þér alla armæðudaga lífs þíns, hefur þú beðið mig að taka alt, svo nú ert þú kominn að degi lausnarinnar og dauðans. Mér þykir fyrir að þurfa að segja þér þetta, en þú getur engum um kent utan sjálfum þér".

,,En það er nú til lítils að fást um þetta, úr því ég er dauður", hugsaði Ali.

,,Ég er brjóstgóður", segir andinn þá, og brosti. ,,Ef þú vilt skal alt vera sem áður, eins og þú hefðir einskis æskt þér; ég skal bera þig aftur þangað sem ég tók þig, og líf þitt skal að öllu leyti vera óbreytt. Hvað segir þú um það?"

,,Ég get ekki óskað mér neins betra", hugsaði Ali. Þá rétti andinn út armana og seildist til hans, og um leið hvarf honum meðvitundin þar til hann raknaði við í skugga hins sama trés, er hann hafði sofnað undir. Hann sprettur á fætur og fer að íhuga, hvort

alt þetta æfintýri hafi nú verið virkilegt eða að eins draumur; og eftir nokkra yfirvegun snýr hann heimleiðis.

Meðan hann svaf hafði sólin gengið til viðar, og var nú mátulega svalt svo hann mæddist ekkert á ganginum. Þegar hann kemur heim til sín fréttir hann, að Noureddin sonur hans hefði orðið svo veikur af fyllirínu um nóttina, að hann hafði strengt þess heit að bragða aldrei framar nokkurn drykk sterkari en blátt vatn. Einnig frétti hann, að hinn ungi maður, sem svo iðulega hafði mætt dóttur hans þegar hún var á leið frá baðinu, var sonur eins hins ríkasta og mest virta vinar hans í Bagdad, og hafði beðið Aminu sér til eiginkonu. Enn fremar fékk hann þann boðskap frá kalífanum, að þegar hann hefði fullkomlega getað kynt sér gerðir hans viðvíkjandi uppreistinni, hefði hann séð, að það væri hans viturlegu ráðum og staðfestu að þakka, að hún varð svo fljótlega og umsvifalítið bæld niður; hann mætti því hér eftir vænta vináttu sinnar enn þá fullkomnari en áður.

---

## HANNA BODWELL.

---

James Bodwell var einn hinna fyrstu nýbyggja í Bingham-héraðinu í ríkinu Maine í Bandaríkjunum. Í þann tíma var þar fjölskipað af Indíánum, meðal hverra sumir virtust vilja halda frið og sátt við hina nýju innflytjendur, en aftur voru aðrir, er ýfðust við þá og þótti óþolandi, að hin fölu andlit (svo kölluðu þeir hvíta menn) legðu undir sig landeignir þeirra og vildu því helzt uppræta þau af jörðunni.

Fjölskylda Mr. Bodwells samanstóð af fimm persónum, nefnil. honum sjálfum, konu hans dóttur fimmtán ára gamalli, sem hét Hanna, og dreng og stúlku, annað tíu en hitt sex vetra. Hann hafði bygt sér kofa, rutt nokkrar ekrur af landi og sáð í þær.

Margir Indíánar, nágrannar hans, höfðu iðulega heimsótt hann með allmiklu vinsemdarbragði; en mesta athygli virtust þeir þó veita börnum hans, og fóru oft fram á, að yngri börnunum væri lofað að heimsækja sig, en þeim

var jafnan synjað þess; en samt voru þeir jafn vingjarnlegir, og létust vilja gera Bodwell og fólki hans allan þann greiða, er þeir gátu þeim í té látið.

Hanna var sérlega myndarleg og fríð stúlka, með dökk, kjarkleg augu, afar mikið jarpt hár, er hún lét jafnan leika í lausum lokkum niður um hinar fríðu axlir sínar og herðar, og vakti það allmikla aðdáun meðal Indíána.

Eftir nokkurra mánaða viðkynningu við Bodwells-fjölskylduna fór Indíána-höfðingi einn fram á það, að fá Hönnu heim með sér til þess að bæta henni við sína eigin fjölskyldu, en, eins og við var að búast, neitaði Mr. Bodwell tilboði þessu, og bar það helzt fyrir, að hún væri ennþá of ung til þess að fara frá foreldrum sínum, og kvaðst því, sem faðir stúlkunnar, ekki geta gengið að kosti þessum fyrir hennar hönd; en eigi að síður kvaðst hann vilja halda frið og sátt við höfðingjann og flokk hans, og vonaðist eftir, að þetta yrði þeim ekki til deiluefnis eða sundurlyndis.

Nokkra stund sat Indíáninn þegjandi og sem í þönkum; loks blés hann þunglega og mælti: „Mér þykir ilt, að þú vildir ekki verða við þessari bón minni, en ekki mun ég heimsækja þig utan einu sinni oftar, og ekki skal

flokkur minn framar veita þér eða þínum ó-næði". Að svo mæltu fór hann.

þegar hann er farinn segir Mrs. Bodwell: ,,James, ég held, að maður þessi hafi ilt í hyggju".

,,Því heldurðu það?" spyr maður hennar.

,,Vegna þess, að hann sagðist ekki ætla að heimsækja okkur utan að eins einu sinni enn, og það er hugboð mitt, að hann ætli einungis að koma til að drepa okkur öll" svaraði konan.

,,Nei, það held ég hann geri ekki" sagði Bodwell.

,,Nei, ég vona það nú reyndar líka, en samt væri það ekki nema rétt eftir Indíánum" sagði konan.

,,Já, ég veit, að það er ekki ólíkt sumum þeirra, en þó held ég, að hér sé engin hætta á ferðum", segir hann.

,,Ég skal segja þér nokkuð", segir Mrs. Bodwell, ,,ég ætla ekki að hátta í kveld; ég vil heldur vera vakandi þegar þeir kom hingað aftur til að drepa okkur og hafa Hönnu og hin börnin burt með sér."

það var auðséð, að Mr. Bodwell var far-inn að verða hálf smeikur, þó hann reyndi að dylja það, en segir samt: ,,Setjum nú svo, að

þeir komi, hvað heldurðu að þú gætir þá gert, þó þú værir vakandi?"

,,Ég vil reyna að verjast einhvern veginn".

,,Já, en þeir ern margir og við fá".

,,Það eru byssur í húsinu og við vitum hvernig á að meðhöndla þær", segir hún.

,,Hvað mikið púður er til í húsinu, pabbi?" tók Hanna fram í.

,,Það er talsvert til af því".

,,Þá veit ég hvað við skulum gera".

,,Já, þið konur hafið ætíð nóg að segja", mælti Bodwell ólundarlega.

,,Ég veit það hlýtur að hepnast."

,,Jæja, skýrðu þá frá hugmynd þinnig".

,,Þú veist", segir Hanna, ,,að þegar Indíáni kemur og vill komast inn, þá gengur hann rakleitt að hurðinni og knýr á hana, en samfylgdarmenn hans — ef nokkrir eru — þyrpast þétt að baki honum. Ráð mitt er því það, að við gröfum gryfju all-stóra rétt úti fyrir húsdyrunum, látum í hana talsvert af púðri, þekjum svo yfir aftur svo vel að ekki sjáist nein veg sum merki, höfum síðan kveikiþráð úr gröfinni, sem liggi inn í húsið undir þröskuldinum, þarf þá ekki annað en kveykja á honum að innan frá með eldspýtu, til að sprengja alt í loft upp á einu augabragði".

Mr. Bodwell hristir höfuðið og segir: „Það er ómögulegt“.

„Ég held víst að það megi takast“, segir stúlkan.

„Ég er viss um að það tekst“, segir móðir hennar.

„Þið getið reynt það, ef ykkur lízt,“ segir Mr. Bodwell um leið og hann fer á stað eftir púðrinu.

Síðan, er gröfin var búin, var hún fylt upp með smágrjóti og púðri og byrgt svo yfir með mold, og að öllu leyti um búið eins og Hanna hafði ráð til lagt.

Nú sást á Mr. Bodwell, að honum var farið að lítast betur á ráð dóttur sinnar en í fyrstu; og var hann nú orðinn öruggur og mjög vongóður um, að þetta mundi hepnast.

Strax þegar dimma tók var dyrunum vandlega lokað og byssurnar hlaðnar. Mr. Bodwell tók sér stöðu við lítinn glugga eða vindauga, sem á var veggnum; líka boraði hann holur gegnum vegginn á nokkrum stöðum, bæði til að sjá út um og líka fyrir byssuhlaupin, svo skjóta mætti á þá, sem kynnu að verða uppistandandi eftir sprenginguna.

Kveldið fanst þeim langt; engir gestir komu; alt var kyrt og hljótt. Leið svo fram

eftir nóttu, að náttúran öll virtist blunda vært og rótt undir hinum heiðskíra himni. Þá, alt í einu, var sem heyrðist fótatak, ekki all-fjarri, og um leið gátu þau, við stjörnuljósið, deilt mann, er stefndi beint heim að húsinu, og svo annan og þriðja, og alt þar til komnir voru á milli tuttugu og þrjátíu. Allir gengu þeir rakleiðis heim að dyrunum og stóðu þar í þéttum knapp, flestir rétt yfir gröfinni.

Foringinn rekur þá bylmings högg á hurðina með viðar-barefli og segir: ,,Fölu andlit, opnið hurðina strax, eða ég brýt hana í spón".

Ekkert hljóð heyrist innan frá.

Aftur ber Indíáninn í hurðina og endurtekur skipan sína í grimdarlegum tón.

Mr. Bodwell miðar nú byssu sinni gegnum vindaugað, rétt á höfuð höfðingjans, og um leið gaf hann Hönnu bendingu um að kveykja á þræðinum; síðan hleypti hann af byssunni, og í sömu svipan sprakk alt í loft upp, og létu þar yfir tuttugu Indíánar lífið á hryllilegan hátt.

Þeir fáu, sem uppi stóðu eftfr atburð þennan, tóku sem skjótast til fótanna og reyndu að forða sér, en skot innan úr húsinu lögðu tvo þeirra að velli.

Nú varð alt kyrt og hljótt; en strax, sem

morgunsólin sendi geisla sína yfir austurhæðirnar, opnaði þessi vaska fjölskylda dyr sínar og leit út. Var þar ófagurt um að litast. Hinir sundurtættu rauðskinna-ræflar lágu sem hráviður víðsvegar um völlinn, svo blöskrunarlegt var að sjá. En hið eina, sem réttlætt gat hryðjuverk þetta, var það, að þau áttu sitt eigið líf að verja.

þennan sama dag heimsóttu Mr. Bodwell nokkrir landleita menn, sem voru að hyggja sér eftir bústöðum þar í grendinni; þeir hjálpuðu honum til að ryðja valinn og dysja skrokkana. Dvöldu þeir þar síðan nokkra daga til liðs honum, ef Indíánar kynnu að veita árás að nýju.

En ekki kom til þess, því aldrei framar leituðu rauðskinnar á Bodwell eða fólk hans. Menn þessir tóku sér lönd þar í grendinni og settust að. Fáum árum síðar giftist Hanna syni eins þeirra. Og þó hún sé nú fyrir nokkru skilin við heim þennan, þá varir minning hennar með heiðri, því líf hennar var mjög nytsamt og happasælt; og hún naut þeirrar ánægju áður en hún dó, að sjá elzta son sinn hafinn til ríkisstjóra-tignar í ríkinu Maine.

---

# ÓLAFUR.

Morgun einn, er við sátum að máltið, barst í tal, að við þyrftum að bæta við okkur vinnumanni; faðir minn var því heldur meðmæltur, en bróðir minn Will (stytt af William)—sem raunar var mjög nýtur félagslimur í búskapnum—var því fremur mótfallinn, og var auðskilið á orðum hans, þó hann ekki segði það beint út, að hann áleit það mest gert til að létta á yngsta félagslimnum, nl. mér; og það varð til stuðnings hans hliðar á málinu að því leyti, að það gat komið mér til að þagna. En alt fyrir það réð karl samt eins og hann oftast var vanur; og áður en farið var til verka um morguninn, var því slegið föstu, að við fengjum okkur mann.

Ég man vel eftir þeim morgni, því það kom á mig að vökva trjágarðinn; því þó mér þætti flest vinna á landinu leiðinleg og lítt upplífgandi fyrir andann, þá þótti mér þó þetta verk einna lakast af öllu.

En hvað um það, ég fór til verks. Kippkorn frá mér sá ég hvar Gilles nábúi var að plægja akur sinn og þrammaði mjög þyngslalega á eftir plógnum á stóru kýrskinns-rosabullunum sínum. Fyrir neðan akur Gilles var dálítið belti af baðmullartrjám er tók af alt útsýni til litla þorpsins Arsila, sem var pósthús okkar og næsta járnbrautarstöð.

Þegar ég var búinn að vökva tvær trjáraðirnar heyrði ég til eimlestarinnar frá Denever, og sá þegar hún rann yfir brúna á Berton læknum og heim í þorpið. Litlu síðar varð mér litið í áttina til þorpsins, sýndist mér þá sem eitthvað væri kvikt niður á veginum; ég horfði stöðugt á þetta, og eftir því sem það færðist nær stækkaði það; það hélt rakleitt áfram og inn um hlið, sem var á trjágarðinum að neðan; sá ég þá, að þetta var maður í mjög einkennilegum búningi. Og þetta var Ólafs fyrsta heimsókn til okkar.

Fáum mínútum seinna stóð hann frami fyrir mér með sína skrítnu útlendu húfu, sperta upp fyrir hársrætur að framan, og hendurnar í skinnpeisu-vösunum.

„Hef verið að leita að vinnu", segir hann.

„Hvaða vinnu helzt", spurði ég aftur jafn einfeldnislega því mér fanst það eiga bezt við

hið slétta og hreinskilnislega andlit hans og hin barnslegu bláu augu, sem sakleysið og trúmenskan skein út úr.

,,Ég get unnið á ,farmi".

Í því sá ég, að faðir minn kom utan af akri og stefndi heim að húsinu svo ég kallaði til hans; hann kom, og sagði ég honum þá erindi mannsins; hann virti gestinn vandlega fyrir sér.

,,Hvað lengi hefur þú verið hér megin hafsins?" spyr hann síðan.

,, Í þessu 'Contrý'i?"

,,Já".

,,Hef verið hér eitt ár".

,,Hvað ertu, svenskur eða danskur?"

,,Svensk".

,,Hvað hefur þú gert hér?"

Hann fór nú að klóra sér í höfðinu og horfði vandræðalega á okkur á víxl; faðir minn sá hvað honum leið og breytti því spurningunni þannig:

,,Við hvað hefurðu unnið helzt?"

,,Hef unnið á járnbraut, hef stundum höggvið við".

,,En þekkirðu nokkuð til bændavinnu?"

,,Get ekki sagt í þessu landi".

Og um leið benti hann á vatnsleiðsluskurðinn og leit upp í loftið:

,,Vil gera svo vel sem ég get".

,,Fyrir hvaða kaup viltu vinna? hvað mikla peninga seturðu upp?"

,,Get ekki sagt, þú borgar mér líkt og þú borgar öðrum mönnum".

,,Hvað heiturðu?"

,,Ólafur Jónsson".

Ég fór að reyna að stafa þetta eftir því sem hann bar það fram, en það vildi ekki ganga greitt, og það var liðin full vika þegar ég komst að þeirri niðurstöðu, að þetta væri einmitt algenga enska nafnið Johnson, svona framborið á svensku. En hvað um það, Ólafur réðist þarna til okkar fyrir vinnumann.

Willi bróðir var af og til að kvarta um, að hann væri fákunnandi, og þóttist þurfa að eyða svo miklum tíma í að kenna honum verkin; en Ólafur yfirvann það með sinni einstöku þægð og góða vilja; en tregt gekk honum að ná hylli Katrínar, sem eins og skyldurækin og góð kona hafði tekið talsvert til greina aðfinningar og óánægju Williams bónda síns. En það var fyrir milligöngu litla nafna míns, Toms, (stytt af Tómas) og systur hans—sem var enn þá minni—að Ólafur komst í álit hjá móður þeirra; þau elskuðu hann frá byrjun. Því vart getur sú tilfinning orðið ríkjandi í móðurhjartanu, að

bera hatur eða illan hug til þeirra sem börnin hænast að.

Mér er óhætt að segja, að innan hálfsmánaðar vorum við búin að þekkja Ólaf til fulls, og hann búinn að vinna sér hylli allra á heimilinu; ekki einungis fólksins, heldur líka hrossanna, nautanna og jafnvel hundsins. En frá þessu var þó ein nndantekning með okkar góðhjartaða vinnumann. Eitt af hrossunum, ,,bronco" (vilt hestakyn), sem upphaflega var nefndur Jack, en svo skírður upp og kallaður ,,Dimon" (fjandi) eftir að við höfðum verið sjónarvottar að því, að hann hafði tekið Svíann upp á listann hjá sér, sem einn af hlutum þeim er haun reyndi að eyðileggja og tortýna. Auðvitað fékk Ólafur ekki meira en sinn tiltölulega skerf við okkur hina af góðgerðum þessa illyrmis. Faðir minn hefði annars átt að bera alla ábyrgðina af gerðum hans, því það var honum að kenna að við gátum ekki losast við hann; ætíð þegar tækifæri gafst til að selja hann, byrjaði karl á því að segja hreinskilnislega frá öllum hans göllum og hrekkjum, og sem í sannleika voru bæði margir og miklir, en hann hélt óhjákvæmilegt að geta þeirra. En eftir að menn höfðu heyrt þennan fallega vitnisburð vildi auðvitað enginn lifandi maður líta

víð að kaupa hann. Við vorum að eins búnir að eiga hann fáa daga þegar við vorum komnir að raun um það, að enginn okkar gat tjónkað nokkra vitund við hann, nema helzt Will. Í fyrsta sinn sem ég ætlaði að gefa honum rak hann mig algerlega út úr hesthúsinu; síðan skreið ég upp á hesthúsloftið og lét svo hafrana renna ofan í stallinn til hans; og með því eina móti gat ég verið óhræddur um líf mitt fyrir honum. Faðir minn fékk líka sinn skerf hjá honum seinna um daginn; hann ætlaði að láta á hann aktýgin og setja hann fyrir vagn. Ég vissi aldrei upp á víst hvernig það gekk til, en Katrín sagði mér, að hann hefði komið inn draghaltur og Willi hefði rokið út með axarskaft í hendinni.

Strax sem Ólafur kom var hann rækilega varaður við glettum Dimons; en ei að síður kemur hann eitt sinn inn, frá því að gefa honum, allur haltur og skakkur eftir hann. Tom litli tók strax eftir því og spyr, með barnslegum raunasvip:

,,Hvað kemur til þú gengur svona Óli?" og fór að haltra eftir honum um gólfið. Hann brosti góðlátlega og segir:

,,Ég held þetta sé slæmur hestur".

Will, sem hafði heyrt þetta, segir: ,,Þú

mátt vera alvarlega varkár, Ólafur, því annars getur farið svo, að Dimon hafi þig fyrir litla skatt einhvern morguninn“.

Einhverra orsaka vegna—sem þeir faðir minn og bróðir vita bezt um—atvikaðist það svo, að Ólafur var látinn vinna mest með mér. Við vorum því oftast saman; þar fyrir gerðist hann uppburðar betri og djarfari við mig en aðra, og mér gekk betur að skilja hann en hinum; þannig sagði hann mér, á sinni bjöguðu ensku, sögu sína frá gamla landinu, svo ég komst til fulls í skilning um æfikjör hans þar.

Hann var sonur fátæks bónda í Svíþjóð, og hjá honum hafði hann upp alist. Nábúi hans hét Olson og dóttir hans Elsa; hún var á aldur við Ólaf. Þau ólust þar upp saman og hafði jafnan verið gott vinfengi þeirra sem barna, og þegar þau komust til fullorðins aldurs bundust þau hjúskaparheitum; en vandræðin voru, að faðir hans hafði fleiri börnum fyrir að sjá, en bújörðin lítil svo hann mátti ekkert af henni missa. Faðir Elsu var líka fátækur leiguliði og hafði að eins lífs-ábúðarrétt á jörð þeirri er hann bjó á. Það virtist því ekki vera neitt rúm fyrir þessar ungu persónur í gamla heiminum; svo Ólafur afréð að freista lukkunnar í hinum nýja heimi. En far-

areyrir var ekki til nema fyrir annað þeirra Elsu, og réð hann því af að fara fyrst og vinna sér inn fargjald handa henni svo hún gæti sem allra fyrst komist til hans og þau gifst.

,,Hvað mikið ertu búinn að draga saman í fargjaldið?" spurði ég.

,,Get ekki sagt, held það sé nærri nóg."

Síðan dróg hann upp hjá sér dálítinn kampung, margvafinn tvinnaspottum, opnaði hann svo og tók þar úr nokkra samanvafða bankaseðla, er hann rétti mér og segir: ,,Gerðu svo vel og teldu þetta." Peningar þessir voru að upphæð 93 dollarar. Ég kom honum í skilning um hvers virði þetta væri, og hvað hann ekki þurfa meira en helming fjár þessa fyrir farbréf stúlkunnar frá Stokkhólmi til Denver. Hann bjó um peningana vandlega aftur, og ánægjubros lék um ráðvendnis andlitið á honum.

,,Þakka þér fyrir", segir hann. ,,Það er mjög gott, að það er nóg, ég ætla þá ekki að láta líða meira en mánuð þangað til ég sendi farbréfið".

Ég gat ekki annað en borið talsverða virðingu fyrir Ólafi eftir þetta samtal okkar. Þetta var maður, sem heita mátti, að væri á flækingi í ókunnu landi; þekti lítið í málinu og því minna fólkið; á lágu mentunarstigi; en trú

hans var svo mikil, að hún gat flutt fjöll. Með sitt litla dagskaup og fáeina dollara í vasanum var hann—sökum trygðar sinnar — reiðubúinn að ganga út í hjúskaparstöðuna og taka upp á sig alla þar af leiðandi ábyrgð. Vissulega eru slíkir menn þess verðir að þeirra sé minst með virðingu. Enda gat ég ekki annað en miklu fremur virt hann en aumkvað upp frá því.

Sem dyggur og duglegur þjónn hafði Ólafur allareiðu áunnið sér talsvert álit hjá föður mínum og Will. En svo kom eitt atvik fyrir, sem algerlega braut í sundur skilrúm það, sem annars er vant að vera milli húsbænda og hjúa, og varð Dimon að bera ábyrgð á því tilfelli, eins og reyndar flestu sem úr lagi gekk á heimilinu.

Merin okkar hafði helzt daginn áður, og jafnvel þó við hefðum aldrei getað notað Dimon nema fyrir vagn, þá neyddist Will til að reyna að beita honum með öðrum hesti fyrir kornskurðar-vélina; en ekki gekk það af alveg þrautalaust fyrir Ólafi, Willa né axarskaftinu. Faðir minn, Katrín og ég, stóðum nokkuð álengdar og horfðum á leik þennan, en börnin, Tom litli og systir hans, stóðu rétt í jaðrinum á hveitiakrinum. Þegar loksins var búið að koma hrossunum fyrir vélina, stóðu þau nokk-

ur augnablik kyr; Ólafur gekk á stað til hlöðunnar, en Will fór að klifrast upp á sætið. Þá í sama augnabliki hljóp sá gamli í Dimon, og fyr en við höfðum tíma til að reka upp hljóð, lá Will kylliflatur á jörðu niðri, og hrossin, með vélina á eftir sér, komin á flugferð; þau hlupu sem æðistrylt út um akurinn, fóru fyrst langan sveig og stefndu síðan heim að húsunum aftur. Meðan að á þessu stóð held ég engum hafi hugkvæmst, að börnin væru í nokkurri hættu stödd, þar til óhemjur þessar voru rétt að kalla komnar ofan á þau; og það var enginn annar en Ólafur, er við áttum líf þeirra að þakka; hann kom eins og ör væri skotið þvert yfir hlaðið, þreif börnin, rétt framan við hestafæturnar, og kastaði þeim frá, öðru til hægri og hinu til vinstri handar, en hafði ekkert tækifæri til að forða sjálfum sér; fóru því hrossin með vélina yfir hann; og að hann slapp lífs af, að eins með nokkrar skrámur, mátti heita sannarlegt kraftaverk. Þegar við loksins höfðum höndlað hrossin og alt var komið til rólegheita fundum við, að víkingurinn okkar var að vísu talsvert meiddur, en þó ekki neitt hættulega. Við vorum öll svo hrifin af þakklætistilfinningu fyrir frelsi barnanna við bjargara þeirra, að Dimon var ekki strax dæmdur til dauða, sem auðvitað hefði þó átt að vera.

Þetta algerlega breytti stöðu Ólafs. Leigði þjónninn var nú skoðaður sem einn af fjölskyldunni. Næsta kveld, er við sátum inni í stofunni, segir faðir minn: ,,Þetta var annars laglega af sér vikið,'' og meinti það til Ólafs. ,,Laglega,'' tók Katrín upp, ,,það var meira en það, það var hreint út sagt aðdáanlega hetjulegt, það var afbragð; ég hefði hreint getað lagt hendurnar um hálsinn á honum og látið að honum.''

,,Því gerðirðu það ekki?'' segir Will, með jafnvel óviðfeldnari svip en ég gat búist við.

,,Vegna þess, ja, vegna þess'', svaraði hún ráðaleysislega.

,,Vegna þess'', segi ég, ,,að Ólafur mundi ekki hafa tekið því þó þú hefðir gert það, því hann mun vera bundinn öðrum örmum, þó þeir séu nú sem stendur heima í Svíþjóð.'' Síðan sagði ég þeim sögu hans.

,,Það er gott, þetta bætir úr'', segir faðir minn, um leið og hann stendur upp, ,,ég hef verið í vandræðum í allan dag, með að finna eitthvað upp, sem við gætum gert fyrir hann; þetta bendir mér á veginn. Það er þarna norður hlutinn af landinn hans Gilles, sem ekki hefur neinn vatnsrétt og verður því að fá alt vatn frá okkur. Ég veit, að við gætum

miðlað svo miklu vatni, sem þarf, ef við endilega þyrftum þess. Ég ætla að vita hvaða kaupsamninga ég get gert við Gilles; landið er honum einskis virði, eins og nú stendur, svo ég held hann ætti að vera fáanlegur til að selja það með þolanlegum kjörum".

Þá svaraði Will bróðir, svo mig undraði: „Ef að þú, faðir, vilt gera þetta, þá lofa ég að leggja til allan viðinn, sem þarf í húskofa handa honum, og svo getum við hjálpast að, að koma honum upp. Nær ætlar hann annars að senda eftir stúlkunni, Tom?" segir hann spyrjandi og snýr sér að mér.

„Í næsta mánuði, hefur hann sagt mér. En mig furðaði ekki þótt hann gerði það fyr, undir þessum kringumstæðum; því hann hefur næga peninga til þess."

„Jæja", segir Will, „við skulum þá slá þessu föstu; þú getur sagt honum þetta í fyrramálið Tom, og ef hann treystir sér til að meðhöndla merina, getur hann tekið hana og létta vagninn og keyrt heim til bæjarins; en þó væri máske betra, að þú færir með honum, því hver veit nema hann falli í hendur einhvers þorparans, og tapi svo peningunum, ef þú ert ekki með honum".

Snemma næsta morgun sagði ég Ólafi

þessar óvæntu fréttir. Og á ég engin orð til að lýsa þakklætis-tilfinningum hans.

„Það er gott, það er mjög gott", endurtók hann aftur og aftur.

Við lögðum svo strax af stað og héldum til Denver, og lukum fljótlega erindi okkar á farbréfa-skrifstofunni. Að því búnu snerum við heimleiðis, með þeirri gleðilegu fullvissu, að innan skams mundi Elsa Olson á Vatnsenda fá tilkynningu um, að farbréf biði hennar á skrifstofu þingvalla-línunnar í Stokkhólmi.

Það má vera, að Ólafi hafi fundist það eins og hálf snubbótt, að gleðifregnir þessar bærust heim að Vatnsenda einungis með skrifstofu-skeyti, því skömmu eftir heimkomu okkar, kemur hann upp á herbergi mitt, með húfuna í hendinni, og biður Mr. Tom að gera svo vel að lána sér skriffæri, sem ég lét fljótt í té. Og eftir hér um bil eina klukkustund var hann búinn að skrifa bréf, sem ég er viss um, að hann kom á pósthúsið um kveldið, þó það kostaði hann að labba all-langa leið í náttmyrkrinu.

Gilles mun hafa látið föður minn fá landið með allgóðu verði, með því að hann var upp á okkur kominn með vatn til að veita á nokkurn hluta af hinu landinu sínu,

hefði verið í vandræðum ef við hefðum synjað honum um það.

Við bygðum svo húskofann í snatri, en Ólafur átti að fullgera hann að innan í hjáverkum sínum. Að nokkrum tíma liðnum kom bréf frá Elsu, er sagði nær hún ætlaði að leggja á stað frá Stokkhólmi, og sáum við að það var dagsett að eins fjórum dögum fyrir þann tíma; við fórum því að vonast eftir málþráðar-skeyti frá New York-agentinum, sem tilkynti nær hún legði upp þaðan og vestur, enda kom það vonum bráðar.

Nú var alt í góðu lagi. Dálítið, snoturt heimili var til reiðu handa gestinum. Katrín hafdi lagt til innanhússmunina frá sér og fyrir sína peninga. Svo kom dagurinn, heiður og fagur. Eimlestin átti að koma til Denver kl. 3 e. h. Eftir beiðni Ólafs, fór ég með honum til bæjarins; átti hann svo að keyra heim með Elsu sína, en ég ætlaði að fara með kveldlestinni til Arvila.

Þegar við komum til bæjarins, fréttum við, að lestin væri hálfum tíma á eftir áætlun, og þá fyrst sá ég óþolinmæðis merki á Ólafi. Hann gekk með miklum alvörusvip aftur og fram um vagnstöðva-pallinn, með höndurnar í skinntreyjuvösunum. Loksins sást til lestar-

innar; og eftir fáar mínútur var hún stönzuð við pallinn. Ég hafði auga á fólkinu, sem ruddist út úr fremstu vögnunum. Elsa var með þeim seinustu, sem út komu. Ég sá, að hún var lagleg stúlka, fremur fölleit. Lítill maður, dökkur á yfirlit, með miklar, loðnar augabrýr og mikið reifaraskegg, hjálpaði henni niður úr vagninum. Ég sá, að hún kom strax auga á Ólaf í mannþyrpingunni; og stanzaði hún þá og leit niður fyrir sig, eins og bíðandi eftir því að hann kæmi. Af því ég þóttist ekki hafa rétt til að gera sjálfan mig henni kunnugan, sneri ég frá. En þegar ég leit við aftur, sé ég hvar Ólafur kemur á móti mér. Ég sé strax, að hann er náfölur, og augun eins og í helsærðri skepnu; og jafnframt sé ég, hvar „reifarinn" leiðir Elsu hægt við hönd sér upp að farangurshúsinu.

„Nú, hvað er þetta, Ólafur? hvað er að?" segi ég.

„Hún getur ekki komið, hún fer með hinum manninum", svaraði Ólafur. Ekki gat ég merkt nokkurt reiðiteikn í rödd hans, heldur eins og einhvern sáran angistarhreim.

„Nú, hver er þessi annar maður?" spyr ég svo.

„Get ekki sagt, þau urðu samferða frá gamla landinu", segir hann.

það virtist eins og ekkert yrði úr þessu bætt. Ég tók nú í hönd Ólafi og leiddi hann þangað sem hryssan okkar var. Þá datt mér alt í einu í hug, hvernig í þessu mundi liggja, og hugsaði, að ekki dygði að láta við svo búið standa, eitthvað yrði að reyna. Ég sagði Ólafi að bíða mín þarna, en flýtti mér til baka heim á pallinn og leitaði fram og aftur að lögregluþjóni, sem ég vissi að kunni svensku. Ég var svo heppinn að ná í hann von bráðar, og kallaði hann á eintal; ég sagði honum afdráttarlaust frá öllum málavöxtum, og beiddi hann að tala við stúlkuna og reyna að leiða henni fyrir sjónir, hversu svívirðilegt og miskunarlaust þetta athæfi hennar væri.

Elsa og fylgifiskur hennar voru komin inn í farangurs-húsið og stóðu þar upp við borð er við komum til þeirra.

„Jafnvel mér—sem ekki skildi eitt orð af því, sem talað var—gat ekki dulist, að Nelson lögregluþjónn gerði sína skyldu vel og rækilega. Meðan hann var að tala stóð Elsa grafkyr og horfði beint niður á gólfið; hún ýmist sótroðnaði eða fölnaði upp. Ekki gegndi „reifarinn" neitt fram í tal þetta, og hefur það ef til vill komið til af virðingu, sem hann bar fyrir einkennisbúningnum. En þegar Nel-

son þagnaði, dró hann handfylli sína af gullpeningum upp úr vasa sínum og fór að hringla í þeim á borðinu.

Elsa leit snögglega við, þegar hún heyrði gullhljóminn, hún hristi höfuðið framan í Nelson og gekk rakleiðis til félaga síns.

,,þetta er líklega ekki til neins", segir lögregluþjónninn, ,,hún heldur víst, að þessi piltur hafi meiri peninga en hinn".

,,Ég býst við, að svo sé", sagði ég mæðulega. ,,En þetta er nú samt argasta höfuðskömm, Nelson, og ég er meira að segja viss um, að þetta er versti erki-fantur, sem vert væri að hafa strangar gætur á".

,,Ég býst við, að þú hafir rétt fyrir þér", segir hann, ,,ég skal tilkynna kaft. Johnson alla málavöxtu, og ef þessi piltur svo mikið sem rennir augunum á ranga hlið, skal hann fá gistingu í tukthúsinu; það mun líka fyrir honum liggja".

þetta var nú auðvitað nokkur huggun, en þó ekki af því tagi sem ég gat búist við, að bætti stórt úr raunum Ólafs. Ég fann aumingja víkinginn okkar sitjandi í vagninum, með höndurnar fyrir andlitinu. Ég fór upp í til hans og keyrði á stað án þess að yrða á hann. þegar við vorum að fara yfir brúna, sem lá yfir

Platt, fanst mér ég finna vínlykt; mér datt í hug, að Ólafur mundi hafa vikið sér eitthvað frá, á meðan ég var burtu, og fengið sér eitthvað af þessu heimskingja lyfi. Ég lagði niður taumana, án nokkurra umsvifa, og leitaði á honum; fann ég þá í skinntreyjuvasanum merkurflösku hálfa af brennivíni. Ég tók hana án þess hann veitti nokkra mótstöðu, losaði úr henni tappann og fleygði svo öllu í ána. Hann talaði að eins einu sinni á leiðinni, og það var þegar við vorum nærri komnir heim.

,,Hvernig á ég að segja föður þínum og Mr. Will?" segir hann.

,,Og, segðu þeim ekkert um það", svaraði ég, ,,ég skal sjá um það; farðu bara til vinnu þinnar og láttu ekki á neinu bera".

Fólkið var alt úti á hlaði þegar við komum. Katrín varð fyrst til að taka til máls. Hún klappar saman höndunum af kæti og segir:

,,Á, hún kom þá ekki eftir alt saman, ég sagði ykkur þetta lengi, að hún mundi ekki hafa tíma til að komast til Denver fyr en seinni partinn á morgun."

Ég svaraði því engu.

Þegar við vorum sezt að kveldverði, en Ólafur var úti í hesthúsi að hirða gripina,

heyrðist til eimlestarinnar frá Denver, er hún var á leið til Arvila. Þá segir Katrín:

,,Þarna kemur nú lestin, sem þú áttir að koma með, Tom; gaman væri nú ef þið tveir skylduð hafa týnt stúlkunni í mannþrönginni, svo hún mætti nú koma ein eftir alt saman".

,,Við höfum fundið hana, en betra hefði það mátt vera", segi ég.

Í því heyrum við gegnum gluggann, sem var opinn, einhver ólæti úti í hesthúsinu.

,,Þar er klárfjandinn tekinn til einu sinni enn", segir faðir minn um leið og hann stekkur upp, ,,hann hættir ekki fyr en hann drepur einhvern, ef við verðum ekki bráðlega af með hann".

Alt var kyrt og hljótt þegar við komum út í hesthúsið, en við daufa birtu af lukt Ólafs, er hékk þar á veggnum, sáum við Dimon grafinn til hálfs í brotum úr stallinum og grindaverki því, er var í kringum hann; hann var með hausinn undir jötunni, hálsbrotinn og hengdur í bandinu. Ólafur lá að nokkru leyti undir honum, blóðið rann úr skurði miklum, sem hann hafði á enninu. Þegar við bárum hann út, var hann alveg meðvitundarlaus, og það var einungis hjartað er gaf til kynna, að hann væri ekki steindauður. Faðir minn kraup niður að honum og kannaði sárið.

,,það er æði djúpt, en ég held að höfuðskelin sé óbrotin. Við skulum bera hann inn í hans eigið hús, en þú, Will, farðu eftir lækni og vertu nú einu sinni fljótur".

Við lyftum Ólafi svo upp og bárum hann inn í svefnherhergi hans, og stax sem við höfðum komið houum í rúmið, hljóp Will til konu sinnar og sagði henni hvernig komið var. Hún kom að vörmu spori, og á meðan við vorum að reyna að hlynna að Ólafi það lítið við gátum, heyrði ég að Will rauk af stað á flugferð til Arvila.

þegar við höfðum gert alt hið bezta, er við höfðum vit á, fóru þau faðir minn og Katrín, en ég átti að vera hjá Ólafi þar til Will kæmi til baka með lækninn. En bráðum varð mér nær óbærilegt að vera inni í þessu þögla, dimma herbergi, og—eins og mér jafnvel fanst —með dauðann í návist minni. Ég gekk því út í dyrnar og fór að virða fyrir mér hina hljóðu náttúru og hinn dýrðlega stjörnuhimin. Vöknuðu þá hjá mér ýmsar hugsanir. Yfir jörðina breiddi hin þögla nótt sína dökku friðarblæju, og uppi yfir öllu ljómuðu ótal blys hins heiðskíra himins, er stráðu sínum geislastraumum niður á hina sofandi náttúru umhverfis mig. En inni í hinu lága, litla húsi sínu lá þessi

aumingja umkomulausi, fátæki verkamaður, með sínar sviknu vonir, dauðsærður á sál og líkama. þetta var heimkoman, sem hann fékk, þann dag er hann hélt, að sínar fögru vonir mundu fyllilega rætast og sitt langa stríð loks vera á enda. Og þegar ég hugleiddi hans miklu vonbrigði, þá komst ég jafnvel að þeirri niðurstöðu, að þetta síðasta voða slys hefði verið það heppilegasta; því hvað hafði þessi veslings maður eiginlega að lifa fyrir, þar sem allar hans vonir, öll hans áform höfðu liðið svo hræðilegt skipbrot.

Ég ráfaði svo út í myrkrið og ofan að garðshliðinu til að vita, hvort ég sæi ekki Will koma; en ég sá hvorki né heyrði neitt. Ég var um það bil að snúa til baka þegar mér virtist eins og ég grilla í eitthvað, sem bærðist á veginum er lá frá þorpinu, og von bráðar sá ég, að þetta var kvennpersóna, sem gekk upp að hliðinu, stanzaði þar og horfði þegjandi á mig.

,,Ertu að gá að nokkru?" spyr ég, og hélt opnu hliðinu.

Hún kom inn fyrir, gekk fast upp að mér og horfði framan í mig. En ég þekti hana ekki, þangað til hún tók hönd mína í báðar sínar og segir:

,,Ólafur!"

þá vissi ég hvers kyns var, að þetta var Elsa, er hafði nú snúist hugur.

,,Ólafur, Ólafur!" endurtók hún í angistarróm.

,,Já", segi ég, og leiddi hana heim að húsdyrunum og vísaði henni inn. Hún gekk inn að sæng Ólafs og stóð þar nokkur augnablik eins og steini lostin, með aumkvunarlegum sorgarsvip, þar til hún kraup á kné við rúmstokkinn. þá sneri ég út aftur að gá að Will, og fáum mínútum seinna kom hann með lækni rinn.

Ég flýtti mér þá inn aftur, og kraup Elsa enn við rúmstokkinn og byrgði andlit sitt í rúmfötunum, en ,,víkingurinn" okkar var að tala við hana. eins og við grátandi barn, sem hann vildi hugga.

þegar ég kom, leit hann á mig með sínum broshýru augum og segir:

,,þetta er litla Elsa; kom aftur til Ólafs; það var mikið gott; þetta er Mr. Tom."

Skömmu eftir að við snerum heim frá Denver mun Elsu hafa snúist hugur, enda varð þrælmennið, sem hafði flekað hana, feginn að forða sér og laumast burtu, því þegar til kaft. Johnsons kom, hafði hann í heiting-

um að taka hann fastan, ef hann hefði sig ekki burt sem skjótast. Hann sá því sinn kost vænstan að fara.

Ólafur lá lengi í sárum, en varð þó alheill. Elsa stundaði hann með sannri alúð á meðan hann lá. Nú lifa þau farsælu og ástríku hjónabandi, búandi á landi sínu í góðum efnum. Aldrei vill Ólafur minnast á þetta glappaskot konu sinnar, enda er Elsa honum eftirlát og ástrík kona. Og viss er ég um það, að hún lætur aldrei gullhljóm, né nokkuð annað, tæla sig frá Ólafi sínum.

---

# RÁÐVENDNIN BORGAR SIG BEZT.

Clarence Eilsworth—sögukappi vor—var drengur fjórtán ára gamall; og þótt hann væri ekki,—eftir því sem menn segja—sérlega fríður, þá hafði hið ráðvendnislega andlit og hin bláu, blíðu augu hans, áunnið honum traust og vináttu margra.

Morgun einn var hann alt annað en með glöðu bragði. Verzlun sú, er hann hafði unnið við sem vikadrengur, frá því foreldrar hans dóu; var nýskeð kollsteypt, eða—sem alment er sagt—farin á höfuðið; og hann hafði árangurslaust verið að leita sér eftir samastað. En hin síðustu orð móður hans: „Gefstu ekki upp drengur minn", voru enn þá fersk í minni hans og styrktu hann í baráttunni. Hann ráfaði aftur og fram um bæinn og leitaði fyrir sér, en alt forgefins, því flestir kváðust hafa dreng, og þeir, sem engan höfðu, sögðust engan taka.

Loks staðnæmdist hann við dyr á stórr sölubúð; og eftir litla umhugsun afréð hann að fara þar inn, og reyna einu sinni en.

þegar inn kemur, spyr hann eftir yfirumsjónarmanni; honum er strax vísað inn i hliðar herbergi; þar situr miðaldra maður og er að lesa.

,,Hvað vilt þú drengur minn?" spyr hann mjög þægilega.

,,þér munuð vera Mr. Lansing?" segir Clarence.

,,Já", er svarið.

,,Ég kom til að spyrja um, hvort þér þurfið ekki vikadreng".

,,Og ekki eiginlega sem stendur", segir Mr. Lansing; en þegar hann tók eftir hver áhrif svar þetta hafði á drenginn, segir hann aftur: ,,Geturðu sýnt mér nokkurn góðan vitnisburð frá fyrri húsbændum þínum".

þetta var atriði sem Clarence hafði alveg gleymt. Slíka veraldarvizku þekti hann hreint ekki; því annars hefði honum verið innan handar að útvega sér vottorð, þegar hann fór úr vistinni—þeirri einu, sem hann hafði í verið —því hann var uppáhald húsbændanna. Hann var því neyddur til að svara spurningu þessari neitandi; enda þótt hann vissi, að með því var fokið í þetta skjól. Hans ráðvendnissvipur var þar ekki einhlýtur; ekkert utan góð meðmæling, gat fullnægt kröfum veraldarmanns eins og Mr. Lansings.

Clarence sneri því aftur svo búinn út á götuna, og barst með fólksstraumnum fram og til baka þar til nóttin datt á; fór þá óðum að fækka á götunum, með því líka, að þá gekk að fannfergjuhríð með all-snörpum vindi, svo allir keptu heim og litu hvorki til hægri né vinstri.

Clarence fór nú að gerast bæði kaldur og svangur, en verst var þó, að hann var alveg peningalaus. ,,Hvar skyldi ég þá geta fengið húsaskjól í nótt?" hugsaði hann. Í því heyrir hann kallað skamt frá sér:

,,Halló! Clarence, hvern skollaan ert þú að gera hér um þennan tíma nætur?"

Clarence leit snögglega við; og við birtuna af götuljósinu þekkir hann þar Ed. Loring; dreng jafnaldra sinn, sem hann hafði kynst þegar hann var í búðarvistinni.

,,Má ég spyrja þig hinnar sömu spurningar?" segir Clarence.

,,Húsbóndi minn borgaði mér kaupið í kveld, svo ég er að hugsa nm að bregða mér á leikhúsið".

Clarence datt nú í hug að biðja hann að lána sér ofurlítið af skildingum; en í því verður honum litið á eitthvað dökkleitt, er liggur á gangstéttinni; hann hleypur til og þrífur það

upp. Og hvað heldur lesarinn að það hafi verið. Ekki annað en stór vasabók. troðfull af bankaseðlum.

,,Hver árinn", hrópar Ed. Loring. ,,Þú varst sannarlega heppinu, drengur minn; opnaðu hana strax, svo við getum séð hvað hún hefur að geyma".

Clarence varð svo hissa og utan við sig, að hann var orðlaus um stund. Loks segir hann þó: ,,Ég veit varla hvort ég á að opna hana eða ekki, Ed. Þetta er ekki mitt eins og þú veizt".

,,Hvaða vitleysa. Finnandi er eigandi, og þar til og með sér okkur enginn; kannske líka það sé nafn innan í henni".

,,Nafn, já máske það sé, ég gleymdi því", segir Clarence, og fór að opna hana.

,,Hvað er að?" spyr Ed., þegar hann sá hversu Clarence hrökk við.

,,Þetta nafn—ég var einmitt inn á skrifstofu þessa manns í morgun, að biðja hann um vinnu", svaraði Clarence. Á innanverðri kápunni stóð með smáu, gyltu letri: ,,Edmund R. Lansing, B—Madison stræti".

,,Hvað er um það, þó þú værir inni á skrifstofu hans í morgun? Láttu mig sjá hvað hún hefur inni að halda", segir Ed. um leið og

hann þrífur bókina af Clarence, áður en hann gat nokkuð sagt eða gert. Eins og fyrr segir, var hún troðfull af bréfpeningum, og þar að auk voru nokkur skjöl, sem leit út fyrir að væru mikils verð, á því hvað vandlega var um þau búið, Clarence líkuðu illa þessar aðfarir kunningja síns, og strax er hann hafðf náð bókinni af honum aftur sagði hann honum meiningu sína.

,,Eftir minni skoðun ertu einstakur kjáni", segir Ed. ,,En heyrðu, viltu nú annars ekki miðla nokkru til félaga þíns?"

,,Sannarlega ekki", svaraði Clarence. ,,það er ekki mitt að miðla neinum af því; ég ætla að skila því beint til eigandans."

,,Jæja, þú færð máske einn fjórða part úr dollar fyrir vikið; það er þér mátulegt fyrir b. . . vitleysuna".

,,Hvað um það, ég skifti þér engu af því", svaraði Clarenc; og að svo búnu yfirgaf hann Ed., er stóð blístrandi eftir á gangstéttinni.

Honum datt nú í hug að taka sér far með strætisvagni, því það var all-langur vegur að húsi bókareigandans; en þá mundi hann eftir því, að hann átti engan skilding að borga farið með; hann hnepti því að sér treyjunni, og hélt á stað gangandi, móti hríðinni, það harðasta

hann kunni, þar til hann kom að stóru skrautlegu steinhúsi; og til að vera viss um húsnúmerið gekk hann upp tröppurnar og hringdi dyrabjöllunni. Mr. Lansing var rétt nýkominn heim og búinn að sakna sjóðsins, og hafði látið í ljósi, að þetta óhapp yrði nærfelt til að steypa sér. Hann hafði—rétt til reynslu—sent nokkra þjóna sína á stað að leita bókarinnar, ef ske kynni, að hún lægi en þar sem hann hafði mist hana. Það er ekki meining mín að reyna að lýsa fögnuði þeim sem varð meðal fólksins í húsinu, þegar Clarence framvísaði fund sinn, né viðtökum þeim er hann fékk, eða hóli því sem upp á hann var sett, en þetta alt ætlaði nærri að gera drenginn ærðan.

,,Jæja. drengur minn", segir Mr. Lansing, ,,í morgun neitaði ég að taka þig í þjónustu mína, af því þú komst ekki með vottorð, en nú hefur þú framlagt það vottorð sem fullnægir; ég ætla því að taka þig—ekki sem vikadreng—heldur sem son minn".

Og hann efndi líka drengilega orð sín, því innan fárra daga gerði haun Clarence að lögmætum erfingja sínum og syni.

Og svo, lesari góður, hafir þú ekki áður verið fyllilega sannfærður, þá vona ég þú sannfærist nú um það, að ,,Ráðvendnin borgar sig bezt".

## FRÆNDI FRÁ VESTUR-INDÍUM.

,,Ef ég gæti náð í peningana hans, kæri ég mig ekki um neitt'', segir Ellen Saville við systur sína.

,,Hreint er ég hissa á þér, Ellen'', segir Jane.

,,Þú þarft ekki að vera hissa á því; hvað ætti ég að kæra mig um gamlan frænda minn, sem ég hef aldrei séð?''

,,Vegna þess hann er frændi þinn''.

,,Vitleysa! Geturðu búist við, að ég geri mér eins ant um Tom (stytt fyrir Tómás) frænda, sem hefur enga peninga, eins og Ben (stytt fyrir Benjamín), sem hefur þá nóga?''

,,Vissulega ættirðu að gera það''.

,,En ég get það ekki. Hvað ætti ég að kæra mig um Tom?''

,,En hvað þarftu að kæra þig um Ben.''

,,Ó, það er sagt hann sé ríkur sem Gyðingur, og þegar hann deyr, ja, hver veit nema hann kannske arfleiði mig, ef ég get komið mér í mjúkinn við hann.''

,,Já, en Tom er eins skyldur þér eins og hinn.“

,,Ó, hann er fátækur, og til hvers ætti ég að eiga nokkuð við hann; mamma segist ekki vilja hafa hann í húsinu, en að við verðum að vera kurteisar við hann, og það sé nóg“.

,,Nei, það er ekki nóg; við verðum að fara eins vel með hann og Ben.“

,,Jæja, ef þér sýnist að gefa þig að honum, þá máttu það, en ég geri það ekki“.

,,Við skulum spyrja móður okkar, hún kemur þarna.“

,,Ég er nógu gömul til að ráða mér sjálf“.

Móðir þeirra var heldur á máli Ellenar, þótt hún færi hægar í sakirnar; hún sagði, að Tom yrði að sjálfsögðu vel með farinn; en þar fyrir gæti enginn meinað Ellen að halda meira upp á Ben, ef henni sýndist svo.

Lyndiseinkunnir og upplag systra þessara var mjög ólíkt, eins og líka kom fram í þessu þeirra samtali. Ellen var stærilát, sjálfselsk og kaldlynd, en Jane þvert á móti, mjög hógvær og hjartagóð, og gat ekkert aumt séð; hún kendi því meira í brjósti um Tom, sem var fátækur, og áleit enn brýnni skyldu að hlynna vel að honum en hinum frændanum, sem sagður var stórríkur.

Tom hafði eitt sinn verið ríkur maður, en tapað öllu. Nokkru áður en systurnar fæddust höfðu þessir föðurbræður þeirra yfirgefið ættjörð sína og farið til Kína. Ben hafði sezt að í Hong Kong og grætt þar mikið fé. Tom var skipstjóri fyrri hluta æfi sinnar, og — eftir að hafa dregið talsvert fé saman — settist hann að í Calcutta; en þar tapaði hann öllu sínu á mislukkuðum gróða-fyrirtækjum; og þegar hann var orðinn félaus leitaði hann til Hong Kong, á fund bróður síns, sem þá var í brottbúningi og ætlaði heim aftur til Boston.

Ben, sem var mjög dreglyndur maður, tók nú bróður sínum tveim höndum, og réð honum fastlega til að fylgjast með sér til Boston, og kvað hann skyldi ekki bresta neitt það, sem peningar gætu veitt; líka kvaðst hann hafa skrifað mágkonu sinni — ekkju bróður þeirra—að veita þeim viðtöku.

Mrs. Saville var búin að vera ekkja í fimtán ár; hún hafði aldrei séð þessa sína tengdabræður, en oft hafði hún skrifast á við þá; hún hafði ætíð virt þá mikils, bæði vegna bróður þeirra og hinna vinsamlegu bréfa er þeir höfðu skrifað henni.

Mr. Saville hafði skilið konu sinni eftir fremur litlar eignir, þegar hann lézt, rétt að

hún gat alið dætur sínar sæmilega upp, með því að halda menn í fæði sér til styrktar; en nú, þegar von var þessara Aust-Indiafara, lét hún þá alla frá sér.

Svo komu nú þessir bræður. Tom var hrottalegur og grimmur eins og björn; það reyndi því allmikið á stillingu og þolinmæði Jane að stjana við hann, og reyna að þóknast honum. Ben var þar á móti kurteis og blíður við alla. Ellen var því heldur en ekki lukkuleg yfir hvað þessi ríki frændi sinn væri góður viðfangs.

Þeim voru fengin stór og góð herbergi til íbúðar, sem útbúin voru með allskyns þægindum og skrauti.

Þessir gömlu herrar skemtu sér daglega með því að ferðast um borgina og skoða þær mörgu breytingar, sem gerst höfðu þau tuttugu og fimm ár er þeir höfðu dvalið erlendis; og það var á einni þessari ferð, að Tom meiddist svo, að hann varð að halda við rúmið nokkra mánuði.

Slys þetta atvikaðist þannig, að þeim hafði verið fenginn fremur óstiltur hestur til að keyra á; og Tom—sem vanari var að stjórna skipi en hesti—hafði taumhaldið. Svo, þegar minst varði, veltist vagninn um koll og þeir steypt-

ust báðir út úr. Ben komst af ómeiddur, en Tom lærbrotnaði.

Hann var síðan fluttur heim til sín. Ellen lá við að óska, að Ben hefði heldur orðið fyrir slysinu, svo hún hefði haft tækifæri til að hjúkra honum og sýna honum umönnun sína og hluttekningu. En það var nú Tom, sem fyrir því varð. Hann var hinn skapversti og bölsótaðist um yfir þessum kvölum, svo vandræði voru við hann að tæta. Jane armæddist mikið yfir honum, og gerði alt hvað hún gat til að leita honum hæginda og lina þrautir hans; hún yfirgaf hann aldrei nótt né dag.

þetta var all-þungur reynslutími fyrir veslings Jane, því frændi hennar var heldur erviður í skapi og óvorkunlátur við hana, og—eins og Ellen sagði—þó hann hefði átt miljónir til að skilja henni eftir, þá hefði hann ekki getað verið heimtufrekari og uppástöndugri við hana en hann var; og hvað þá heldur þar sem hann var öreigi. En þótt Jane hefði átt von á að erfa hann að stórri auðlegð, hefði hún ekki getað sýnt honum meiri nákvæmni en hún gerði.

Á meðan hann lá, forðuðust þær mæðgur, Ellen og móðir hennar, að koma nærri Tom,

svo Jane mátti ein hafa allan veg og vanda af að þjóna honum.

,,Því fær hann sér ekki hjúkrunarkonu?“ segir Ellen.

,,Þú þyrftir ekki altaf að vera yfir honum“, segir móðir hennar.

,,Það virðist að hann vilji ekki, að ég yfirgefi sig eitt augnablik“.

,,Og það gerir ekkert til“.

,,Ég get ekki neitað honum um það“.

,,Það ætti ég víst ekki bágt með“, segir Ellen, og hnykkir til höfðinu.

Jane duldist ekki, að—þrátt fyrir hranahátt hans—hefði hann gott og viðkvæmt hjarta; hún áleit því, að þetta stafaði meira af gömlum vana frá sjómanslífi hans, en að upplag hans og lundarfar væri svo stirt.

Eftir því sem honum batnaði, skánaði líka geðslag hans, svo veslings Jane varð lífið miklu þolanlegra; og lét hann þá stundum í ljósi, á sinn einkennilega hátt, að hann ætti henni mikið að þakka fyrir hvernig hún hefði reynst sér.

Svo liðu tímar fram. Að tveim árum liðnum lagðist Tom veikur og dó.

Jane syrgði hann mikið, því á þessum tíma hafði hún lært að þekkja hans góða hjartalag.

Tom frændi var nú dáinn og horfinn. Jane mundi einungis alt það góða, sem hún fann í fari hans, en hinu, sem bakaði henni armæðu, hafði hún gleymt.

Morgun einn, viku eftir útför Toms, kom bróðir hans ofan af lofti með heilmikið skjal í hendinni.

,,Ég ætla að leiða athygli yðar að einu mikilsvarðandi málefni, sem ég þarf að opinbera yður", segir hann um leið og hann sezt niður á stól.

Mrs. Saville og dætur hennar urðu undrandi yfir hvað það gæti verið.

Ég hef hér í höndum erfðaskrá Toms bróður míns", segir Ben.

,,Erfðaskrá hans?" segir Mrs. Saville.

,,Erfðaskrá?" tók Ellen upp eftir henni.

,,Já, vissulega, erfðaskrá", segir Ben.

,,Ég hélt hann ætti ekki eyris virði", segir Ellen.

,,Það er misskilningur, hann var mjög ríkur maður", segir Ben.

,,Tom frændi ríkur?" segir Ellen.

,,Já, eigur hans eru víst verðar yfir hálfa miljón dollara".

,,Hálfa miljón?" segir Ellen, ,,því hefurðu ekki sagt okkur þetta?"

,,Ég hef ekkert um það sagt; bróðir minn var nokkuð undarlegur; en betra hjarta og stærri sál hef ég ekki þekt", segir Ben.

,,Við vissum, að annar ykkar var ríkur, en annar fátækur", segir Mrs. Saville. ,,Og okkur var sagt, að Tom hefði mist allar sínar eigur".

,,Það var nú ég sjálfur; og hver sem hefur sagt annað hefur sagt þér skakt frá. Áður en við fórum frá Kína, sagði bróðir minn að allar eignir sínar skyldu vera mínar sem sínar til umráða og afnota, og þetta skyldi vera heimuglegt milli okkar, svo enginn vissi hvor væri sá ríki eða fátæki, og um að halda þessu leyndu, tók hann af mér sterkt loforð, og það hef ég efnt; hér veit enginn að ég er sá fátæki sem tapaði öllu mínu".

,,Nú er ég hreint hissa", segir Mrs. Savlile.

Og þá varð Ellen ekki síður hissa og eyðilögð yfir að hafa tapað bardaganum svona hraparlega.

Hið góða hjarta vann sigurinn.

,,Jane hefur hlotið að vita um þetta alt", segir Ellen gremjulega.

,,Ekki meira en þú sjálf", segir Ben.

,,Nú skuluð þið heyra erfðaskrána: Tom

frændi gefur belming eigna sinna Miss Jane Saville, en hinn helminginn bróður sínum Ben, en að honum látnum falli sá hluti einnig til Jane".

Ellen gat naumast ráðið sér fyrir gremju og reiði; síðan þaut hún út úr herberginu, öll flóandi í tárum; hún sá að hún hafði tapað.

En Jane hafði unnið, að eins fyrir sitt góða hjarta; hún giftist ári seinna, manni sem var að hennar hæfi; hún reyndist trúverðug og ágæt kona, eins og vita mátti, um stulku sem reynst hafði eins og hún gömlum og stirðlyndum manni, án þess að hafa von um nokkurt endurgjald.

Ellen er ógift enn, og ekki líkur til að hún giftist; en hún á ætíð trúan vin þar sem hin auðuga systir hennar er.

*

Vertu mildur og góður við alla; þú veist aldrei hverjum þú kant að mæta á lífsleið þinni.

———

## ARABISK SAGA.

Hjá ættbálki þeim, er Neggden nefnist, var hestur einn, sem talinn var allra hesta beztur, og var því nafntogaður nær og fjær. Baduini einn, sem Daher hét og tilheyrði annari ættkvísl, hafði mjög mikla ágirnd á hesti þessum, og hafði lagt sterka fölun á hann, en árangurslaust, jafnvel þó hann biði aleigu sína fyrir hann; en eitt sinn datt honum ráð íhug, sem hann hélt að duga mundi til að ná honum.

Hann tekur sig til og makar sig einskonar legi, sem breytti svo útliti hans og hörundslit, að hann varð óþekkjanlegur; síðan klæðir hann sig í hina örgustu larfa; að því búnu fer hann að vegi nokkrum, er hann vissi að eigandi hestsins mundi fara um von bráðar.

Þegar hann sér Nabar koma (svo hét hesteigandinn), hrópar hann með veikum og angistarlegum róm: ,,Ég er vesæll og fátækur aumingi, sem búinn er að sitja hér í þrjá daga, án þess að geta veitt mér nokkra björg, eða hreift mig nokkuð úr stað til að leita mér lífsnæringar, og er því kominn rétt að dauða. Ó,

hjálpaðu mér, góði maður, guð mun endurgjalda þér það.“

Nabar hrærðist brátt til meðaumkvunar, bauð honum á bak hjá sér og kvaðst mundi reiða hann heim til sín.

,,Ó, ég get með engu móti reist mig upp, það er enginn máttur framar til í mér“, segir bragðarefurinn.

Nabar fór þá af baki og leiddi hest sinn upp að honum, og fór að tosa honum á bak og tókst það loks með mestu herkjum. En ekki var Daher fyr seztur almennilega í söðulinn, en hann slær upp á klárinn og þeysir á stað. Síðan hrópar hann til Nabars og segir: ,,Ég er Daher, og er nú búinn að ná hestinum, þó þú vildir ekki selja mér hann.“

Nabar kallar þá til hans og biður hann að veita sér áheyrn um eitt augnablik. Daher, sem vissi að hann mundi ekki geta náð sér og var því óhræddur, stansaði spölkorn frá honum.

,,Þú hefur tekið hest minn“, segir Nabar, ,,og fyrst það er vilji drottins, óska ég hann verði þér til gagns og gleði; en eins ætla ég að biðja þig, og það er, að láta engan mann vita hvernig þú komst að honum.“

,,Og því þá ekki?“ spyr Daher.

,,Vegna þess“, segir hinn göfuglyndi Ar-

abi, „að annar maður getur verið sannur hjálparþurfi, en ef þetta þitt athæfi berst út, eða verður hljóðbært, getur það orðið orsök til þess að honum verði synjað um líkn, því menn óttast máske að verða gabbaðir á sama hátt og ég var nú“.

Daher sat þegjandi og sem þrumulostinn um stund, unz hann stekkur af baki og leiðir hestinn till Nabars, og fleygir sér í faðm hans.

Nabar tók því með alúð, og bauð honum síðan heim að tjaldi sínu, hvað hinn þáði fúslega; dvaldi Daher þar nokkra daga; bundust þeir þá traustum vináttu böndum, sem þeir slitu aldrei meðan þeir lifðu.

---

## SAGA AF HÁKARLI.

Á náttúrugripasafni einu í Lundúnum á Englandi er hafður til sýnis haus af stórum hákarli, og ber til þess saga sú er hér skal greina.

Enskt herskip var á ferð vestur um Atlantshaf. Þegar það nálgaðist Vest-Indiin mætti

það kaupskipi, sem skipverjum leizt eitthvað ískyggilegt, og höfðu þeir sterkan grun um, að það mundi vera þrælaverzlunar-skip. Þeir hugsuðu sér því að höndla það, hvað þeim og tókst; en á meðan á þeim eltingaleik stóð, sáu þeir, að kapteinninn laumaði einhverju fyrir borð. Þeir tóku síðan skip þetta inn til Port Royal, og var það rannsakað þar, en ekkert fanst er staðfest gæti grun þeirra, og þó skipverjar væru krafðir til sagna fyrir rétti, meðgengu þeir ekkert; skipið var því laust látið eftir tvo daga. Ætlaði skipstjóri þá að höfða skaðabótamál gegn herskips-foringjanum fyrir rangan áburð og tafir, er hann hafði af þessu hlotið. En um það leyti kom annað skip inn til Port Royal, sem hafði meðferðis stóran hákarl er það hafði nýlega veitt, og þegar hviður hans var opnaður fanst í maganum dálítill járnkassi, og þá hann var opnaður fundust þar skjöl, er báru þess ljósan vott, að skip þetta hafði verið gert út til þrælakaupa. Skipverjar voru því teknir á ný, og dæmdir að maklegleikum.

Skjölin fylgja kassanum enn.

---